# ANDVÖKUR

EFTIR

STEPHAN G. STEPHANSSON

1895—1909

III.



REYKJAVÍK
KOSTNAÐARMENN NOKKRIR ÍSLENDINGAR Í VESTURHEIMI
1910

*Tileinkað*

*kostnaðarmönnum þessa kvæða-safns.*

*Það telst að skifta gulli fyrir grjót,*
*Á gróða-vonlaust eyða blessun sjóða:*
*Að steðja út um stræti og gatnamót*
*Og stökum snauðum húsa-skýli bjóða.*
*Eg þakka ykkur — nefni engin nöfn,*
*Eg næ þeim ei í svona fáum línum —*
*Sem lögðuð ykkar efni og fyrirhöfn*
*Í upptínsluna á flækingunum mínum!*

HÖFUNDURINN.

# Hirðskáldið.

Oft varð Sighvat' æði viðsjál
Ólafs digra höll,
Er um konungs blíðu bitust
Beztu skáldin öll.
»Krítík« var ei hógvær hjá þeim,
Hún var mannýgt naut,
Þegar skáldi stirðkvæð staka,
Stuðluð illa, hraut.

Hirðskálds nafn varð ýmsum auðkeypt
— Enn þá mun það til —
Reglan var, að kunna að kveða
Konginum í vil.
— Fyrir »konginn«, lagsi ljúfur!
Lestu »fólkið« nú —
Hugsa það sem heyra vildi 'ann,
Hafa sömu trú.

Skáldin, sem um konga kváðu,
Kváðu fyrir gull.
— Ríkis-bubbar reittu í Hjálmar
Rýrð úr mör og ull —
Þá var skáldsins böslu-búi
Bót í kongsins trú.
Launin — fyrir það má þakka!
Þannig freista ei nú.

Öfundin um Sighvats sæti
Sat í Ólafs höll,
Þó 'ann gengi í hættu er hræddist
Hirð og skáldin öll.
Konungshylli fékk þó fylgdi ei
Firrum hans um of,
Orti betur Erlings-drápu en
Ólafs konungs lof.

Konungs sveit í svaðilförum
Samfylgd hans var góð,
Vel í ferð hann kæta kunni,
Kveða í þreytta móð.

Bændum fanst sem geisli í glugga
Gisting kvæða-manns.
Heimasætum sjáleg þóttu
Svörtu augun hans.

Þú, sem mátt við óðar-erfðum
Öllum taka hans,
Láttu aldrei eigur þær í
Umsjá fjárhaldsmanns.
Lýstu eins og glaður geisli
Glugga einbúans.
Hugulsemi í heimsku kveiktu
Höfði ofstopans.

VIII.

# Á RÚI OG STRÚI.

—

Höfðum ei i samning sett
Síð'stu gangna-daga
Safnið það komst seint i rétt,
Svo mig þraut að draga.

1909

# Á FERÐ OG FLUGI.

Til framandi landa eg broðurhug ber,
Þar brestur á viðkvæmnin ein.
En ættjarðar-böndum mig gripur hver grund,
Sem grær kring um Íslendings bein.

— — — — — — — — — — — — — — — —

Í dómnum hans milda um eðli mitt alt
Var óknytta-getsökum lætt,
I serhverri afsökun asökun var
Sem eitri i kaleikinn bætt.

I.

## Norður sléttuna.

—

Um sléttur og flóa bar eimlestin oss
í áttina norðrinu mót.
Á vinstri hlið silalegt aurana óð
ið óslygna, skoluga Fljót,
Sem lyfti ei fæti í foss eða streng —
því fjör, jafnvel straumanna, deyr,
Að vaga um aldur með fangið sitt fult
af flatlendis svartasta leir.
Það blasti við útsýnið einkennalaust,
nema að eins þar Skóggyðju hönd
Á sléttuna lagði, um lækjanna barm,
sín laufofnu kniplinga bönd.
Sjálft landið var útlits sem endalaust borð
alt órifið, kvistlaust og vænt,
Sem Náttúran hefði ögn hallað á röð
og heflað og málað svo grænt.

Og bygðin var þunnskipuð, þéttust í kring
um þorpsmælkin brautstöðvum hjá
Með hlálega stafsett og stórfengleg nöfn,
en strætin og húsin svo fá:

Ein spiritus-laumverzlun, lyfsala nefnd,
og lánsbúðir tvær eða þrjár,
En kirkjurnar fjórar — að fjöldanum til
eins frjóvar og veitingakrár.
Um grundirnar nýbýlin stóðu svo stök
sem strandsker við glælygnu-sæ;
Og mannvirkin öll vóru líka svo lík
og lagið á sérhverjum bæ,
Öll nýplægða moldin jafn blakkleit á blæ
og blágrænka akranna söm.
Hver mannsandi hlaut víst að hugsa þar eins,
hver hönd vera álíka töm.

Því siðir og hugsanir dagsins í dag
þar drotna með óskoruð völd,
Sem frumbygðin sprettur upp fortíðarlaus
og fóstruð af samtíðar öld.
Og framförin mikla og menningin hér
við minningar ei hefir töf,
Ef endistu að plægja, þú akurland fær;
er uppgefst þú: nafnlausa gröf.
En Saga og Æfintýr öll hefir skreytt
með örnefnum bændanna lönd,
Og bæina óskírða uppvaxa lét
ei öldin um dal eða strönd
Á föðurleifð minni. Í myrknættið út,
er minningar tendra sín bál,
Um vallgróna haugana blossana ber,
svo bjart er um feðranna sál.

II.

## Bæjarbragurinn.

Og eimvélin hægði sitt hlöktandi skrið
og hringjandi spjó hún og hvein;
Svo hægt, sem hún skriði yfir ótraustan ís,
hún ókst fram á þráðbeinum tein,
Er rann hún að borginni — raglega fór,
því rándýrt er mannslífið þar,
Og gripsverðið margfalt — að aka því á
ei alstaðar löghelgað var.
Hjá stöðinni lagðist hún másandi móð,
sem mist hefði dragkraft og þol,
En hjartaslög gufunnar heyrðust þó enn
í hrafnsvörtum, gljáandi bol.
Og slangrandi farþegar klemdust í kös
að komast út þar sem var skemst;
Því jafnvel til matborðsins allmörgum er
það ánægja að rífa sig fremst.

Með félaga einum eg vék mér þann veg,
sem var okkur greiðfærast að. —
Að berast með fjöldanum aldrei mér er
svo ant um, ef ræð eg við það!
Hann fælist ei þrengslin, en firrist það alt,
sem finst honum óljóst og húmt.

En ljósþrengslum geðfeldra myrkrið er mér,
ef myrkrið er einungis rúmt.
Hver húsaröð þéttist, líkt standbergi steypt,
en strætið sem hamragil breitt.
Úr opnaðri jörðinni upp spruttu menn
með andlitin moldug og sveitt.
»Alt samlandar þínir«, kvað sveitungi minn;
»jafn sauðþægir, löghlýðnir menn
Að vinna okkar námur, er vænlegast fólk,
sem við höfum náð hingað enn«.
»Eg trúi því naumast. Þeir ólust« kvað eg
»þó upp yfir jörð þessir menn!
Þeir þola ekki að kviksetjast, klóra sig upp
úr kreppunni og skurðunum senn«.
Þó »landinn« sé gæfur og hlaupi ekki hátt,
hjá hættunum getur hann sneitt.
Og rólega eðlið hans úr honum dró
að umbylta jörðinni neitt.

Þó borgin sé reisuleg, kviklát og kát,
þar kenni eg þó leiðindum á. —
Eg skil það nú loks, hví þeim leið aldrei vel,
sem lentu fyr álfunum hjá.
Þó byggju við allsnægtir, ástir og glaum,
þeim aldrei varð glatt fyrir því:
Sig kristna þeir héldu, en heiðið þeim fanst
alt huldufólk björgunum í.
Mig bagar það álíkt, að örfáir menn
sér eigna hér bústað og jörð;

Mér finst eins og bærinn sé fjárhúsa-krans
og fólkið sé erfðamerkt hjörð.
Öll framboðna varan sé skröksögu skreytt,
hver skoðun af flokksdrætti höll,
Og stórgróðans aðferð mér strandhöggsleg finst
og stelvísleg gjaldþrotin öll.

Og kirknanna rógur og krit út af því,
hver Kristur í fyrndinni var,
Er kerlinga svardögum svipaðast — ef
ei saman um ævintýr bar.
Og nú eins og áður menn ætla það stríð
sé einkum um sannleikann háð. —
En kirkjur, sem ástmeyjar, hyllast þá helzt,
sem hafa mest skildinga ráð.

Eg minnist á kirkjur — því kominn eg var
til kirkjuþings; lærði svo þar,
Að inn í það guðhræddra syndara safn
mér sannlega ofaukið var.
Því þó að eg, vitaskuld, syndari sé,
að sjálfsögðu hef eg mig ei
Úr tapinu hér með að trompa upp á það
sem tekur við, þegar eg dey.
Og sálarró guðsmannsins ókyrrist oft,
hann ásækir grunsemi blind:
Að Dauðinn og Forsjónin felist að sér
í fanginu á einhverri synd.

— Við hversdagsstörf uni ég áhyggjulaus,
mér óhult það sýnist og létt,
Og kem svo til dyranna, Dauði, til þín
í daglegu fötunum rétt.

III.

## Ragnheiður litla.

—

En hvað sem um það er — í þessari ferð
eg þekti og fyrst hana sá,
Sem ljóð þetta er við kent; það nafn ber það nú,
sem nefndi' hana móðirin þá.
Sem englarnir föllnu hún annað nafn fékk
hjá innlendum, varðar ei hvað,
Því Ragnheiður litla er óðfagurt orð
og íslenzkt, svo kýs eg mér það.

Sem vormorguns sólskin um hélaða hæð
var hár hennar ljósbjart og slétt;
Og staðviðra loftið sinn bláföla blæ
á barnsaugun þau hafði sett.
Það var eins og litur sá lægi ekki djúpt,
en ljómaði fastur og glær.
Þó útlitið breyttist, þá hélt maður helzt
þau héldu sér, auðþekt og skær.
Og mér eins og útplöntuð lilja hún leizt
með lausa og veiklaða rót,

Og svo ef að vindurinn velti' henni í leir,
hún velktist og yrði þá ljót.
Þó áhyggja djúp hefði ekkert mark sett
á ennið það, drifhvítt og breitt,
Úr brosinu eitthvað mér sýndist þó samt
og svip hennar fölnað og eytt,
Sem komist hún hefði yfir ellinnar ár -
hún átján þó naumlega var —;
Sem alt hennar líf gengi andhælis fram
og æska' hennar byrjaði þar.
Að vextinum fullorðin, lagleg og ljúf
og léttstíg og ítur og há,
En skapið og hjartað og hugurinn var
tæpt hálfþroska búið að ná.

Eg skildi ekki í því — Eg þekti ekki þá,
hve þungt hennar bernskustríð var
Frá tólfvetra-aldrinum; enn get ei skýrt
frá öllu, er sál hennar bar,
Er nauðugur faðirinn fylgdi' henni í vist —
sú fórnin þó djúpt honum sveið;
En umkomuleysið og útlenzkan smáð
varð atvinnubann hans og neyð.

Hve sárt henni leiddist og langaði heim,
er lýsing, sem orð ekki ná,
Með framandi tungu, sem enginn réð í,
og ókunna fólkinu hjá —
Það var sem að skolast af skipbroti einn
að skjóllausri, ókunnri strönd.

Hver dagur varð vika, en vikurnar ár,
og verst sú er næst fór í hönd.
Hve ánægð og tindilfætt hljóp hún þó heim
um — helgar þá flýtti' hún sér mest —.
Hún margtaldi líka hvern leiðindadag,
en laugardagskvöldið var bezt.
— Og þó, þegar heim kom, var húsið svo snautt
og hnuggin var foreldra brá,
Því kaup, sem hún fékk, ei til fæðis þeim hrökk
og fatnaðs á smábræður þrjá.
Eða hve þreytuleg þaðan hún gekk
og þaut yfir götuna ein,
Er skylda og tilfinning toguðust á:
að tefja og verða ekki of sein,
Þá kvöldrökrið hana í þá dýflissu dró,
sem dagsljósið slepti' henni úr —
Já, hvað gengur fuglinum fleyga til slíks,
sem flýgur í ólokað búr?

Á tómstundum ofan í »kver« var hún keyrð,
svo kæmist hún »fermingu« að;
Sitt móðurmál lærði' hún að lesa til þess,
Svo langt: að hún stautaði það.
En svo fékk hún óbeit á sérhverri bók
og sýndist hún »kverinu« jöfn.
Hún talaði ensku sem innfæddir menn,
en ei kunni' hún bókstafa nöfn.

— Já, kirkjan kveðst ein kunna aðferð og tök
á endurfæðing hvers manns,

eim kipp, þegar hrökkva að óvöru upp
inir andlegu kraftarnir hans
Og hugsjónin birtist. — Og kreddan í kór
hygst kreppa inni sannleikans geim;
En víðari og hærri þó hann er, en svo,
að húki undir veggjunum þeim!
Í stefi, í elding, á busk eða í borg
eins birtist sú dýrlega sýn —
En Ragnheiði litlu var lokað og byrgt
hvert ljós, sem í bókmentum skín.
Og daglegu störfin sem ánauðarok
Hún öll fyrir kaupgjaldið bar —
Tvær skemtanir kepti hún að kostgæfa helzt,
það kirkjan og danshöllin var.

---

IV.

## Sveitarsiðurinn.

---

En fram liðu árin. Og foreldrar nú
sig flutt höfðu úr borg út á land,
En eftir varð Ragnheiður. Búhag var breytt
til betra, þau skorti ekki grand.
En hún hafði líka oft bjargað þeim bezt,
því baslið var erfitt og langt.
En nú var það sigrað, og útlitið ei
jafn eindæma tvísýnt og strangt.

Og Ragnheiður litla í kynnisför kom.
Var kvisað hún settist nú að.
Og stúlkurnar pukruðu og pískruðu margt
en piltarnir hældust um það.
Jafn enskmentuð stúlka varð fyrirmynd fljótt,
svo fjörug og hýrleg á brún.
Á tveim vikum gerðist hver gjafvaxta mey
í ganginum alt eins og hún.
Í dönsum og leikum alt sveitarfólk sveif,
og sögur og ljóð voru þuld —
Og presturinn gerði sér gangskör um það:
að Guðshúsið enn væri í skuld!
Og svo var til almennrar samkomu efnt,
að safna í þann féleysis-hyl;
Og þar gengu kvenfélags-konurnar fremst,
því kökurnar lögðu þær til.
Og Ragnheiðar fegurð var fésæl það kvöld.
Það fanst á, menn skildu það bert,
Að piltarnir vegna þess buðu alténd bezt
í brauðið, sem hún hafði gert.
Til kirkjunnar safnaðist silfur og bréf
og »centin« og »dollara« fjöld.
Og skaparinn ánægður hefir víst horft
á húsið sitt skuldlaust það kvöld.

En vorönn kom rétt eins og rothögg á alt.
Um Ragnheiði lítið var skeytt,
Og dönsum og sáluhjálp sýndist þá helzt
í sáning og uppskeru breytt.

Og þá sat hún hnípin og óglöð, því ei
hún ættingjum framar var lið;
Til hvers var það líf, þegar hvergi var »ball«
og kirkjan ei þurfti' hennar við?
Svo úr því til bæjarins aftur hún fór,
þar ei var svo fjörlaust og þurt,
Á sveitinni hálfleið — og hálfleið var sveit
á henni, er hún fór þaðan burt.
Og nýkomna þaðan var það sem að fyrst
eg þekti' hana og daglega sá. —
Eg mætti' henni eitt skifti eftir það samt,
en ár vóru mörg liðin frá.

V.

## Utan úr óbygðum.

---

Svo ágæt var tíðin það indæla haust
sem árgæzkan stjórn hefði náð,
En desember-hretið kom sviplega samt.
— Í september var því nú spáð.
Við göngunni léttum mjög lúnir það kvöld
og leituðum skógarins hlés
Og tíndum upp kurlið og kyntum vorn eld,
því kaldranalega hann blés.
Og jörðin var gaddfrosin, sængin var svöl,
en samt vóru ei rúmstæðin þröng.
Mér sýndist hver brakandi, blaktandi eik
sem beinagrind skinin og löng;

Því reimt er á kvöldin og kynlegt um haust
í kirkjugarði óbygða-skógs,
Þar fúinn og stormurinn felt hafa við
og frostið hvert laufblað, sem óx.
En félagið okkar var mislitað mjög:
tveir móskotnir, hvor á sinn veg,
Og hinir þrír hvítleitir, engir samt eins —
einn Íri, einn Frakki og ég.
Og niður í kynblendings-kokunum djúpt
gekk »Cree«-tungan hjáróma, flá.
Við málfróðu garparnir hengdum vorn haus
og hlustuðum skilningslaust á.
En líka yfir okkur kom orðgnóttin senn,
og Írinn minn dugði þá bezt;
Hann byrjaði hreykinn að hæðast að mér
— Við höfðum þó naumlega sést; —
Ég skeytti því engu, hann erti mig samt,
réðst örugt á vegglágan garð,
Unz háðslettu fékk hann, sem hitti' hann svo vel,
að hláturinn mót honum varð;
Hann sneri sér undan og þagnaði þá,
og þar næst sér hallaði lágt
Og o'n á sig breiddi svo brekanið sitt,
og baðst fyrir auðmjúkt og hátt.
Og eins út úr lúa og leiðindum við
þar lögðumst við bálið í hring.
En eldblossinn snarkaði um ísloftið grátt
og espitrén hriktu þar kring.

## VI.

## Vetrarmorgunn í áfangastað.

—

Í lýsing að morgni, er vöknuðum við,
ei vantaði rúmfötin nóg,
Því fjúknóttin hafði á flet okkar breitt
eins fets þykt af dúnmjúkum snjó.
Og forsjónin hafði ei að byrgja sem bezt
inn bænrækna Írann sinn hlífst,
Því yfir hann hafði hún skafið upp skafl
og skeflt á hann fönninni dýpst.
En sár-kalt var loftið, er sólin kom upp,
svo seinfær, og kólguna óð;
Það logaði í kverkum, í limunum sveið
og læstist um brjóstið sem glóð.
Í bungóttri fjalfellu af bláhvítri mjöll
var byrgt niðri völlur og gróf,
Og hrímþakin trén vóru svipleg að sjá
sem sálir úr helfrosnum skóg;
En módökkur náttkólgu-hringurinn hár
við heiðloftið svellgráa bar,
Það var eins og himininn héngi við jörð
og hefði orðið samfrosta þar.
Í skýlausa hvelfing var skuggaop blátt
svo skímulaust, gínandi, hljótt
Sem loftshliðið opnaðist langt uppi í geim
að ljóslausri gjörauðn og nótt.

— Við komum af firnindum, Frakkinn og ég,
vor för var af landssjóði trygð.
Og þrjátíu mílurnar ófarnar enn
við áttum af hundrað í bygð;
En hinir í liðið, svo lítið það var,
á leiðinni bæzt höfðu við
Og ótekin veiði og ófundið gull
var iðn þeirra og framtíðar mið.
En við höfðum »stimpilinn« stjórninni frá —
um »stöðurnar« varð nú ei jafnt.
Í meðvitund vorri, en utan á ei,
það aðalsmark bárum við samt.
En þó að svo væri, við vórum þar nú
á viðlíka skipbroti og þeir:
Að krókna upp í óbygð og keifa o'n í bæ;
en kuldann við óttuðumst meir.
Þótt ferðinni hrylti oss hálfvegis við,
hann hristi af sér Írinn minn þó.
Hvort morgunbæn las hann, er mér ekki ljóst,
en matinn sinn át hann í ró.
Og upp þegar lögðum við, leit hann til mín:
»Að líkindum skár um þig fer
Hjá samlöndu glaðlyndri í Golden í kvöld,
sem góðsöm við ferðamenn er«.

———

## VII.

## Námabærinn.

Hún Golden varð Síon vor. — Uppgangi í
hún eitt sinn var Sódóma skírð;
Af galtómum smáhýsum röð eftir röð
bar raun um þá spillingardýrð.
Sem framkvæmdir glæpir þau hrifu á hug
svo hryllileg, svipdimm og ljót;
Með strábrotnu gluggana, útstungin eins
og augu þar störðu okkur mót
Í kvos niðri á eyri í afdal hún stóð.
Um aldanna þúsunda-bil
Þar lafandi fljótstungan fram hafði sleikt
úr fjallhausnum skógvaxið gil.
Í kring stóðu hólar, en hátt uppi fjöll
»með hjarn yfir grænskóginn lyft«,
Og hnjúkarnir ráku upp höfuðin ber
af hríðum og frostinu klipt.

Og menn höfðu fullyrt, að fyndist þar gull,
og fastlega trúað því var,
Að Niflungar bergs hefðu fé sínu fleygt
og falið í gilinu þar.
Menn flyktust svo þangað, í fenginn að ná,
á fám vikum bærinn svo spratt,
Og gullsins var leitað og lifað á von
því lífi, er var skrykkjótt, en glatt.

Og eins tóku goðin öll, gömul og ný,
í gullæði mannanna þátt;
Og Bakkus og Venus sér dýrkendur dró
í dalinn úr sérhverri átt.
Og Jehóva sendi sinn Hjálpræðis-her
á hnotskóg þess Auðæfalands;
En karlinn hann Mammon var mannflestur þó,
því mergðin var öll saman hans.

En tímarnir liðu, og orð lék því á,
að agasamt væri þar mjög.
En kirkjan og valdstjórnin horfðu út í hött
og hugsuðu guðfræði og lög;
Og áður en þær höfðu ályktun gert,
þeim óvart einn frostkaldan dag
Gat þunghenta Örbirgðin, einyrkinn sá,
gert umbót og kipt því í lag.
Því alþýðan ginta um síðir það sá:
hún sylti, ef hún hímdi þar kyr,
Að munnmæli var hún, sú auðlegðin öll,
og alþýðan snauðari en fyr;
Að spilið var tapað og allt saman eytt,
hver eyrir, hvert nýtilegt fat,
En slungið og ósvífið auðmannaband
sá eini, er í gróðanum sat.

Það fór eins og vant er — hver uppspretta auðs,
sem orðið gat fátækum bót,
Varð gullsnara fépúkans, harðara heft
um hlekkbundinn öreigans fót.

Svo flúði á burt þaðan hver sem að komst
— úr kreppunni að losa sig fús —
Og því stóðu mörg saman mannlaus og auð
in myrkfælnis-volegu hús.

Þó alt félli í verði, gat enginn neitt keypt.
En auðlegðin gekk á það lag —
Og tvisvar í viku kom eimlest þar inn,
sem áður gekk þrisvar á dag.
Nú stóðu þar kaupmenn, sem veiðimenn við
og villilýð helzt áttu kaup,
Og gistihús tvö, sem að töpuðu á mat,
en tvíborga létu hvert staup.
En þó svona væri, oss ferðlúnum fanst
hún frelsisborg kvöldið það samt.
Já, næstum eins fögur og foreldrahús
og fólkið alt vingjarnlegt jafnt. —
En heimfýsin drýgði okkur dagana þrjá,
sem dvöldum við strandaðir þar
Í leiðinda óró, unz eimvagninn kom,
sem okkur til Mannheima bar.

---

## VIII.

### Alþýðuleikhúsið.

---

En kvöldið það hinsta, sem hèlt eg þar til,
í herbergiskró minni eg sat.

Í einhverri sjálfheldu sál mín var eins:
ei sofið né lesið eg gat. —
Og þreytandi er andlega aldeyðan sú
sem undir eg lifandi grefst,
Er svifalétt ímyndun afsegir verk
og alt fyrir huganum vefst.
En þó setti forsjónin, máttug og mild,
þann manngrúa í viðlíka horf,
Sem naumlega gefur hún uppeldið ílt
í ágjöf að rista sitt torf. —
Í drykkjusal niðri var hlátur og hróp.
Eg hljóðlega gekk í þá átt,
Sem líklegast helzt til að hrista mig upp
að horfa á, hver léki svo dátt.

Og Írinn minn var það sem hófið þar hélt,
var háværr og orðinn við skál;
Hann fullyrti, að skjóta og skaðberja menn
í skemtunum líf væri og sál;
Að gert hefði Davíð tóm geigskot hjá sér
og gauð verið Samson að slást —
Og víst hefði' hann mönnum í óhófi eytt,
fyrst enginn við sig þyrði fást.
Samt leizt nú víst flestum hann linur í sókn,
hver lagsmaður að honum hló,
Því sjóninni hafði' hann og ganginum gleymt,
— sem gagnlegt kvað víkingum þó.
Menn liðu hann af því hann veitti svo vel
og veitingamaðurinn sá,

Að gróðastofn kvöldsins hann vænlegur var,
sem viðskiftin byrjuðu á.
En Englending seig þó um síðir í nöp,
— hann sjálfur var digur og hár —;
Hann spratt upp og mælti: »Þín útlegging er
of orðmörg því textinn er smár.
Og gætir þú staðið eitt augnablik einn,
eg einvígi léti þér falt —
Þú svallar sem páfi með syndugra fé;
hún Sally þín græddi það alt«.
Til Írans í vettvangi veitandinn hljóp
til vígsgengis, óspar á lið,
Sem reiddist og hafði nær hafið sig upp,
en hné svo og klöknaði við.
»Öll dygð er tóm hamingja — hrekkvísin sjálf,
ef hepnast, með kostum er töld.
En gengin er íslenzka ógæfan mín
og útrekin frá mér í kvöld«.

Inn enski gekk hikandi og hálfreiður burt
úr hópnum og snerist að mér.
»Ég veit að þú, Gestur, ei gizkar á það,
hve gæfulaus maður hann er;
Því útþvegin náma er farsældar fé
hjá félagsskap álíka manns —
Af O'Hara vammirnar þjóðlygin þvær
og þurkar á konunni hans.
Alt þarflegt, sem hugur og höndin hans snart,
lá hrakið og daðlaust og svæft —

Hann lifði á eyðing, sem illgresi um haust,
er alt hefir sáðgresið kæft;
Og hver fyrir tjóni af völdum þess varð,
eg veit, og eg áhrifin skil.
En þó var það annaðhvort loft eða land,
sem lagði því skaðvænið til«.

Á sögu hans festi ég sárlitla trú,
mér sýndist hún afsökun veik
Hins bröltandi ofsa, sem belgdi sig upp
til blásturs, en datt svo úr leik. —
Og Stórbretinn hefir til Múhameðs mælt
oft meira um sakir og stríð,
Og slíðrað samt brandinn og hypjað sig heim,
en Hundtyrkinn myrt svo í gríð.

IX.

## Daginn eftir hlákuna.

—

Og enn var ei fullbjart og eimlestin kyr —
En eirt þó ei lengur eg gat,
Því hálftíma fyr en að fór hún af stað
í farþega rúminu eg sat.
Og dauflega glóðu í gluggunum ljós
og gatan var tómleg og svöl,
Og fólkið mér sýndist enn svefnóralegt
og svipdimt, og andlitin föl.

En alt hafði landið samt útliti breytt
 í asanum, daginn sem leið.
Þann morgun lá sólskinið sofandi í fönn
 og svartklædd var Árskógarbreið.
Og lognið og blíðan sér blandaði í loft
 og blámaði sléttu og fjöll; —
Það var eins og risi frá rólegum draum
 úr rekkjunni veröldin öll.
En þegar að hallaði hádegi af,
 varð hásuðrið eldskininn sjór.
Og andheita fjallrænan kvæðið sitt kvað,
 svo klöknaði stálharður snjór.
En fjöll drógu upp vindskýin, hæluð um hlíð
 og hnjúkana toppstöguð við,
Og suðvestanhlákan á öræfi upp
 sást opna sín gullslegnu hlið. —
Það kvöld, áður dagurinn settist í sæ,
 var sólbráðið starfinu hætt,
En andvaka stormurinn ólmaðist samt,
 svo úti var nauðlega stætt;
Um koldimma hánótt hann hefir ei séð,
 að hjarnið og svellið var frá —
Um miðnætti síðast hann syfjaður varð
 og sofnaði uppgefinn þá.

Og svo kom þá birtingin blækyr og svöl
 og blakti um dalverpið lágt,
Sem starði þar örísl á upprunninn dag
 með andlitið náttkuldablátt.

Menn segja, að hann vetur sé sinkur á gull,
en samt hafði nátthélan grá
Með silfurvír baldírað barminn á hlíð
inn bjarkgróna, og skógkögra um á.
— En framúrleg sýndist og svipdauf hún jörð,
því sumarsins blómskrúð var mist.
Sem ríkilát æskuvon rýrnar af því
að rætast í ellinni fyrst —
Öll fjöll voru gaddhvít, og grimmlegust þau
sem gnæfðu yfir bygðinni hæst.
— Á jökla þá leggur ið harðasta hjarn,
sem himninum teygja sig næst.

X.

## Austur og o'n á við.

Við sólar-ris loksins komst lest vor af stað;
um lægð út úr dalnum hún skreið;
Sem rangali í víðari veraldir út
mér virtist sú hlykkjótta leið;
En smámsaman víkkaði; von bráðar reis
upp vestrið með fjallgarðinn sinn.
En austrið stóð opið sem hurðarlaust hlið
í himin og víðlendið inn.

Hver hlutur rann mót mér á hlaupandi ferð
og hentist í hvarf út á slóð —

Sem Matthías okkar með orðgnótta flug
um útsýnið kvæði mér ljóð!
En sljóskygna augað mitt fékk því ei fylgt -
mér fanst eftir dálitla stund,
Að stórhéruð tóm hefði af sólskini séð
og svifmynd af skógum og grund.
Og þreyttur varð hugur að góna út í geim,
svo glugganum sneri ég frá
Til samferðamannanna, ef gæti ég greint
það gleggra, sem nærri mér lá.
— Á sama hátt þjóðtrúin sjálf hefir skift
um sjónhring — og gerir það enn —
Því guðunum öllum, sem óljóst hún sér,
á einhvern hátt snýr hún í menn.

— Af hádegi leið nú og liðugt gekk ferð,
því lestin var framgjörn og hröð,
Og fjölment var orðið, því fólk hafði bætzt
í ferðina á sérhverri stöð.
Hvort í okkur hafa allar manndygðir mæzt,
eg met ei — en það getur skeð —.
En efalaust höfðum við sérhverja synd
og sjúkdóm í förinni með.
En deyfðin að sjálfsögðu sóttnæmust var:
þó settust menn hlæjandi fyrst,
Þeir drunganum smámsaman önduðu inn
unz afl hafði glaðværðin mist.
Því starf er það ekki, og ei heldur hvíld,
ef uppfyllist það sem eg vil

Og hangsandi biðlund ið einasta er,
sem eg þarf að leggja þar til.

---

XI.

## Gamall svipur.

—

En svona þó gengi nú, varð eg þess var,
við vórum ei sök í því jafnt,
Því ókunnug stúlka sat andspænis mér
og eftirtekt vakti hún samt.
Það leit út sem þekti' hana karlmaður hver,
hjá konum á vandfýsni bar;
Eg vissi ei, hvort orðstír var orsök til þess
eða að eins að fögur hún var. —
Að grannvöxnu limunum fallega féll
hver felling á dökkleitum kjól
Sem rökkurblár kvöldskuggi um einstaka ösp
með upplituð haustblöð mót sól,
Því æskan var bliknuð, og bláminn sást glögt
í bikar á kinnanna rós;
Á glóhári mjúku var móleitur blær
sem máð væri gyllingin ljós.
Af viðmóti réð eg, hún vissi það sjálf
og vonaði eftir því helzt,
Ið mista hún gæti enn unnið svo upp
að auglýsa djarft það sem hélzt.

Í svipnum og orðunum eitthvað það lá,
við alla sem gerði sér dælt,
Ei óvarkárt sakleysis örlyndi þó,
en áætlað, tilgert og stælt.

Mér virtist hún nærri orðin náttúrleg samt,
því nú hafði' hún leikið um skeið
Við fimm vetra stúlkubarn, fallegt og glatt,
af forvitni er til hennar skreið.
— En málkunnan sessunaut hafði eg við hlið,
hann hnipti í mig lágmæltur nú:
»Þú þekkir víst stúlkuna andspænis oss,
því íslenzk er hún eins og þú?«
Eg kvaðst ekki þekkja' hana. Í hljóði hann hló
og hallaðist aftur á bak:
»Hún Golden er iðrandi afturhvarfs bær
og út hana húsbóndinn rak«.
Eg rankaði við því, — það rifjaðist upp
öll rimman frá kvöldinu næst,
Sem sagan um Írann og atvikin þau
sig utan um hana' hefðu læst —
Og hitt: hve hið einkenda Íslendingsnafn
er útsjeð að hanga á oss jafnt;
Um nöfn vor þó skiftum og skiljum við þau,
sem skugginn oss það fylgir samt,
Í fjarlægum héruðum heilsar það oss,
þó höfum ei vænst til þess grand.
Og það situr fyrir í fjörunni, hvar
sem fótum vér stigum á land.

— En hún hafði aftur um útlitið breytt,
varð ákafa-fasmeiri þó,
Er móðirin snúðug og hvatlega kom
og krakkann sinn af henni dró.
Hún leit upp, eg hrökk við; þar litu mig á
in ljósskæru barnsaugun kyr.
Þó umbreytt hún væri, ég þekti' hana þá,
því þau voru söm eins og fyr.

Svo leit eg á hausti — (í hnappinn á rós,
sem héluðum klípur með góm) —
Að heiðbláar sóleyjar lifa oft lengst,
þó litverpt sé hvert annað blóm.
Og tillitið blágljáu augnanna eitt
svo órækt úr huga mér var,
Að eg gat ei raunarlaust rengt mig um það:
hún Ragnheiður litla sat þar.

XII.

## Kvöldskuggar.

Eg stóð úti á pallinum vagntengslin við,
mig viðraði í dragsúgnum einn,
Því inni var kvöldloftið kæfandi þungt
og hver sat og þagði eins og steinn.
Í geiminn og náttmyrkrið eimvagninn út
flaug óskýra, hlykkjótta braut,

Og aldrei var hraði hans harðari en þá:
hann hentist og sentist og þaut.
En út frá mér strikbeint og stöðvunarlaust
hver stjarna upp á himninum rann
Og vélin spjó eisu við andköfin djúp,
sem iðaði í loftinu og brann;
En sléttan flaut blækyr og biksvört í kring
sem barmalaust, öldulaust flóð.
Sem glóðþrunginn Naglfari lestin vor löng
þann lognsæ af náttskuggum óð.

En svo er ei heldur löng hressing í því,
en hálfleiðist manni það fljótt,
Að streitast við næðinginn, stallbróður sinn,
og starast í augu við nótt;
Og helzt fanst mér stundirnar hægja á sér
því harðara farið sem var —
Í næsta vagn gekk ég svo óboðinn inn,
að athuga mannlífið þar.

---

## XIII.

### »Vagn á vegi«.

En handleiðslan æðri víst lagði mér lið
og leiddi mig inn á þann stig.
Eg rak mig þar öldungis óvænt á prest,
og Íslending rétt eins og mig.

Í bænum, þar seinasta viðdvölin varð,
með vagni okkar tók hann sér far,
Og þess vegna hafði eg ei fundið hann fyr —
Í förinni konan hans var.
Hann hafði nú aflokið erindi guðs
og áleiðis kom nú frá því,
Að »prédika boðskapinn« sálunum, sem
að sátu þar »myrkrinu« í.
En andhælis gengur, þó uppihaldslaust
þeir argi um þau kirkjunnar mál.
— Nei, kerlingin gat ekki í gluggalaust hús
flutt geislann í lokaðri skál.
Og eg hafði verið við »vígsluna« hans,
hann »valsa« með Ragnheiði sá;
Og innan við tvítugt við »tuskuðumst« oft
og tvítugir »drukkumst við á«.
Sem »stórveldin« saman við sælduðum margt,
en sífelt í »vopnuðum frið«.
— Þó rígur sé meðfæddur Bósa og Brand'
þeir brjóta ekki heimilisgrið.

Sem húskampar bunguðu enn brúnir hans fram
og burstin á enninu há
Með innsignum vindskeiðum var eins og fyr,
og valsaugun skjáblámagrá;
Og stoltið jafn laundrjúgt í ljúfmensku hans
og lundernið dulrátt og framt,
Eins þræsingslegt bros hans, sem forðum, mér fanst
— en framkoman prúðmannleg samt.

Eg hefði ekki klerkinn frá kaupmanni þekt,
ef »kjóllinn« ei leiðbeindi mér;
Af bragðvísri hagfræði blendingur var
og bókviti hugsun hans hver. —
Eg settist hjá honum; við tókum svo tal,
og tíminn rann liðugar þá,
Því hvenær sem fundumst, hann fagnaði mér
sem feginn mig yrði' hann að sjá.

Þó skemtun mér væri að viðræðu hans,
þess varist ei altént eg gat
Að finna, að hver sköruleg hugsjón var heft,
að hálfkrept öll viðkvæmnin sat:
Að alt var sem gufa, með guðfræðisþef
af góðmeti ársins sem leið,
Frá háborði andans, tóm yfirlitsrit
í útþynning — leifar og sneið.

Við fundum — þó sjaldan við sættumst á eitt
og samræðan oft væri stíf —
Að við höfðum þó orðið samferða samt
um samtímans stefnur og líf.
— Og hugðnæmur andi þinn ósjálfrátt dregst
að umræðu samferða-manns,
Sem fæðingarsveit þína ferðaðist um,
þó frábreytt sé lýsingin hans.
Við hlógum og ræddum svo leiknir og létt
um lífið, um alt nema — trú:
Það læddist fram smámsaman hóglát og hljóð
í huga minn ályktun sú:

Ef rólega gætum alt vegið og virt,
við vitum það, hvor fyrir sig,
Að það vóru forlög sem færðu þig, vin!
í frakkann, í treyjuna mig.

---

XIV.

## Stýrur í augum.

Eg skildi ekki, hvað hafði svift mér úr svefn'
— og samt hafði eg raknað við snögt,
Svo hlutirnir kringum mig, staður og stund,
alt stóð fyrir augum mér glögt
Sem hefði eg ei sofnað; en svo varð mér hverft,
hvert sæti var mannlaust og autt
Og vagninn lá grafkyr; eg gægjast sá inn
um gluggana dagsljósið rautt.
Í opnaðar vagndyrnar flýjandi fram
hver farþegi í skelfing sér tróð,
Og saman við klið, sem af steðjandi storm,
rann sturlunarskvaldur og hljóð.
Eg spratt upp, þó hefði ekki hugmynd um það,
hver háski þar sæist á ferð.
— Þú skuggann á dyrunum getur ei greint
unz gest þinn í ljósmáli sérð.
Eg hljóp upp í framdyrnar, þar var svo þröngt
í þvögu eins og alt hefði klemst.

— Já, lífið er glettið og lokar mér oft
    þá leið, sem er beinust og skemst.
Eg sneri til baka. Hvort gnötraði gólf
    og gliðnaði hliðveggjum frá?
Um brestinn, sem heyrði eg, ei heilann eg braut,
    en helzt vildi útgöngu ná.
En þá varð alt niðdimt, sem negldur eg stóð,
    alt nálægt mér ýskraði og hvein.
Eg stóð eins og lémagna, læstur í ofn,
    þars loftið mig sviði inn í bein;
Eg svitnaði allur, eg andann ei dró,
    hver atraun var kæfandi heit;
Eg hrökk við, um gluggann eg henti mér út
    — en hvernig? það aldrei eg veit.

Að slys hafði orðið, mér loksins varð ljóst.
    Eg leit upp í vagninn mér hjá,
Sem lyftist, sem riðaði, bentist og brast,
    og brotunum kviknaði á.
— Á stúlku ég horfði, sem hafði sér fram
    um hrapandi vagndyrnar þrýst
Og snaraði út barni. Hún festist og féll,
    í fallinu moluð og níst.

Við fimm vagna strábrotna fólkið stóð ært,
    og farstjórinn skipaði og bauð.
— En mér fanst sem rústirnar ræddu um það eitt:
    hún Ragnheiður litla er nú dauð!

En þangað sem krakkanum kastaði' hún út,
einn kvennmaður grátandi rann,
Og vandlætissvipurinn allur var af,
er óskaddað barnið sitt fann.

---

XV.

## Slysið.

—

Vor næturferð gekk, eins og vanalegt var,
eins vel og um hábjartan dag,
Þó skuggamynd lands drægi svartnættið svo,
að sæist ei hóll eða drag.
— En það var í birting að brotnaði hjól
og bilaði eimreiðin vor
Sem svaraði mílu frá svolitlum bæ;
þar sat hún og komst ekki spor.
Í bæinn var hlaupið og hraðskeyti sent
um hjálp — sá var kosturinn einn —
Og boð um, að við værum friðsemdar-fólk,
sem fýsti ekki að stangast við neinn,
Svo þeir skyldu hinkra á veginum við,
sem vildu ekki reka sig á;
Og farstjórinn rólegur roggaði og beið,
því »reglurnar« uppfylti' hann þá.
En fólkið sat dottandi, staðþreytt og stilt,
því stundin var svefndrungaleg;

En fallinn var enginn eins ómæli-djúpt
í algleymið það eins og ég.
— Já, svefn hinna réttlátu sagður er vær. —
Ég svaf eflaust fastara af því,
Að fult hafði eg borgað og bralláð ei um
nein banaráð farinu í.

Og því var, er heyrðist, hvar hraðlestin kom,
og hrópað til útgöngu var,
Og rendi sér undir vorn aftasta vagn,
eg óttalaus vaknaði þar.
Hver sála var flúin, en innbyrgður eg
til útkomu freistaði lags.
— Frá handfestu-draugum af götu ei geng,
en »gufurnar« flý eg nú strax.

En séð hef eg aldrei svo örvinglað fólk;
það æddi jafnt kornungt og hrumt,
Frá vinum og frændum í voðanum hljóp —
frá vitinu líklega sumt.
Og margt lá í dyngjunni drepið og sært,
þó dró ekki af liðveizlu neinn.
— Þeir krömdu og blóðrisa beljuðu um hjálp,
en bráðdauðir þögðu eins og steinn.
Og þegar svo loksins að lögðum við upp,
sló líkfylgdarsvip yfir menn,
Með náina sex, og þá tíu eða tólf,
sem tórðu og veinuðu enn.

En samt var oss fólkið svo fegið og gott
í fátæka smábænum þar.
Það góðhjartað, fult eins og fólk gerist bezt,
og forvitið álíka var.

XVI.

## Dagdómar.

En margur úr hóp okkar, hvað sem til kom,
þar hvíldi um nóttina sig.
Um nafnkendu gestina get eg samt helzt:
in góðfrægu prestshjón — og mig.
Því þau höfðu sloppið hjá slysinu vel
óslösuð, en orðið þó bilt,
Og frakkinn hans hrukkast og henni var enn
fyr' hjartanu dálítið ilt,
Svo húsfreyja gestgjafans gætti þess strax,
hve gráföl og »tekin« hún var,
Og benti á háskann, sem hlytist af því,
ef hún ekki hvíldi sig þar.
Og presturinn, hann hafði töskunni týnt,
í troðningnum eitthvað hún valt.
En eg — eg var þreyttur, og svo vildi eg sjá
ið sorglega framhaldið alt.

Og það var um kvöldið að klerkur og eg
— er kyrð varð í gestanna sal —

Að slysinu víkum — sem altjend komst að,
þó annað fyrst bæri í tal. —
Eg sagði' honum, nú væru sálaðir þrír,
sem sagt var að meiðst hefðu verst.
Og læknirinn hefði um hitt ruslið sagt,
það hrikti eða dæi víst flest.
»Þeir spurt hafa upp sérhvern, er særðist og dó«,
hann svaraði hógvært og spakt;
»Af líkunum fundnu að eflaust eitt
sé íslenzkrar stúlku, er sagt;
Frá námabæ Golden hún nýhorfin var,
en nafn hennar hérlenzkt þó er.
Og vin á hún engan né útfararmann;
það á svo að grafa' hana hér.
Og áður en við leggjum aftur á stað
er afráðin greftranin stutt,
En presturinn hér er ei nærstaddur nú,
svo nein verður líkkveðja flutt;
En þeir hafa uppgötvað þjóðerni mitt
og þekkja mitt erindi og stétt:
Að neita, og vera þar viðriðinn, eins
er vandamál; hvorugt er létt.
Því henni' hefir ónefndur orðrómur fylgt
og allir það strax hafa frétt:
Og grómið af líkinu loðir við mann,
sem lífernið fengi á sig blett.
Hver einstaklings hrösun hjá erlendri þjóð
er ávirðing kynbálksins manns.
Og þar er nú viðkvæmust virðingin mín
og vandhæfust — prestsins og manns«.

»Nei, langt frá, sú hugsun er hégómi einn«,
í hálfgletni svaraði eg dræmt;
»Ef dýrindis stóllinn þinn ataðist út
og altarið, það væri slæmt!
Því Ragnheiður litla hún lagði til þess
svo langmest, er »gjöfin« var keypt.
En hvernig hún hafði það unnið sér inn,
við aldrei við því höfum hreyft!
Og er ekki minnkun að mögla um það nú
að muna' henni þvílíka gjöf
Að skilnaði efstum, fyrst alt, sem hún þarf,
er einungis: venjuleg gröf?
Nei, báðir við komum þar, hver helzt hún varð,
og hvort heldur ill eða góð,
Með kirkjunnar uppreisn og yfirbót þú,
en eg með mín hálfkristnu ljóð«.

Hér slitnaði samtalið — konan hans kom
inn hvatleg og settist oss hjá.
Og te-ið og hvíldin var henni víst holt,
því hraustlegri var hún að sjá.
Þó vóru eins og hnökrar í hrafnsvartri brún
og hæpið að ráða því úr,
Hvort blikan í augunum boðaði storm
þeim blökku, eða stóð hún af skúr.
Ið jarpleita hárið um hnakkann var teygt
úr hringum og snúið úr lið,
Og hæverskugríman að fullu ei féll
ið fjörlega andlitið við.

Hún leit út sem náttúran fríhendis fyrst
þar fram hefði stúlkuna leitt,
En venjan og guðræknin gert hana svo
úr garði og í madömu breytt.
Og sezt er hún hafði, hún samstundis tók
í samræðu hikandi þátt,
Því ljóst var, að henni var hygni sú leið,
að hlusta, en talleiða fátt.
Mér fanst hún sem drengur, sem dregur sig inn
í deilu með brennandi sál,
En reynir að leyna því rólegur samt,
menn ræði sitt áhugamál.

Hann vék að því þegar, hvað við hefðum rætt
og vandkvæði á »álitsins« hlið,
Sem samþykki hárvist inn síðasta dóm
þar segði upp — og bætti því við:
»En vinur minn hérna hann sér ekki samt
það svona, frá gagnstæðri hlið,
Því »almættisdóminn í almannaróm«
hann efar og kannast ei við«,

»Jú, eflaust er« sagði hún »misskilið margt
og mikið, sem leiðrétta þarf —
Hann pabbi' hennar Ragnheiðar ruglaðist eins
í rétt-trúnað síðan hún hvarf.
Er kirkjunni færði hann gjöf o'n á gjöf,
mig grunaði ei — svo var það þó —

Um barnið hans týnda var áhyggjan ein
sú ástæða, er til þess hann dró«.

»Að peningar vinna engum vináttu guðs,
það veit eg svo skýlaust«, hann kvað;
»En þó finst mér heldur, eg hafi nú reynt
að hjálpa' henni alt fyrir það.
Eg finn þó — hver ætlun sem um það er rétt —
að úrræðum flestum hef beitt; —
Sem »messuföt« lögð eru á líðandi mann,
ef læknirinn orkar ei neitt«.

»Og róleg til grafar eg gæti' henni fylgt —
það gerir nú hver fyrir sig. —
Hver neitar með vissu, að venjan sé hjálp
og vörn fyrir hana eða mig?
— Af leiðindum hingað úr fjöldanum fram
eg flúði, að tala ykkur við,
Því fólkið þar inni var áhyggjufult
og óskemtilegt eins og þið!«

Við brostum og fórum að berjast við það,
að breyta um samtalið ögn,
En fjörlausar samþyktir urðu það alt
um einskisverð mál — eða þögn.
Og þegar sú hnignun fór heldur í vöxt,
til herbergis gengu þau brátt;
En ég sat þar eftir enn all-langa stund,
var agndofi, hugsaði fátt.

Það andlega svefnmók um síðir eg sleit.
Til sængur um miðnætti gekk.
Í rúm með mér óboðin Andvakan sté,
svo augunum lokað ei fékk.
Í herbergi næsta — að þiljan var þunn,
og þrönghýst, ei vöruðu sig —
Þeim hjónunum varð ekki værara en mér,
þau vöktu og töluðu um mig.

Það leit út sem prestskonan hefði í það hnýst
hvort heiðarlegt orð færi af mér;
Í dylgjum hann gegndi, sem glæpanöfn ljót
að géta um hann veigraði sér;
Í dómnum hans milda um eðlið mitt alt
var óknytta getsökum lætt,
Í sérhverri afsökun ásökun var
sem eitri í kaleikinn bætt.
En hún fann oft agnhnúa á ályktun hans —
hann espaði hótfyndni sú.
Það var sem hún hikandi hlýddi á það alt
með hálfvolgri, efandi trú,
Því sambúðin hafði það kannske' henni kent
í kyrþey, en stöðugt og jafnt:
Að prestvígslulaust verða mennirnir menn,
að menn eru prestarnir samt.

— Og fyrir svo veglynda vantrú ég gat
með vináttu hönd hennar kyst.
Ef hefðum ei einlægnis innileik við
með ólgunni úr blóðinu mist.

Hjá báðum það hafði víst of-kólnað oft
um ævina, göfuga frú!
Sem útskaga kaldbakur kalinn er eg,
sem kulnaður gígur ert þú.

XVII.

## Almenningsálitið.

Eg gladdist að sjá, hversu hreykinn og hress
og hnarreistur presturinn var,
Og fallegur krans, sem á lokinu lá
á líkkistu Ragnheiðar þar,
Og útförin fjölsótt, sem ant væri þjóð
nú orðið að kveðja' hana og sjá,
Hve hagorð öll bænin og vegsemdin var,
sem vinur minn hlóð hana á.
Því morguninn sama barst sagan í kring
á svipstund — oft lengd, stundum hálf,
Að stúlkan, sem lá þarna, leyst hefði barn
úr lífsháska, en farist þar sjálf.
Svo útbreiddist fréttin og frásagan óx
en fáum var ljóst, hvað hún hét.
Svo íslenzka konan hún aðeins var nefnd.
Það orðsporið nægja sér lét.

Og þá kom að hitta minn háttvirta prest
ein hefðarfrú, göfug og rík,

— Með því var hún auðkend — og inti' honum frá,
sér ant væri um Ragnheiðar lík,
En sjálf væri' hún ókunn og þekti engan þar —
Já, þess vegna hún »titlana« bar,
Að ímyndun fólks, en ei þekkingin þess,
var það sem úr málinu skar. —
»Því hún hefir, veslingur, greiða mér gert.
Í gær þegar slysið bar að
— Hún Daisy mín litla, og líklega ég,
er lifandi nú fyrir það —
Er einhver í svefnvagni sofandi mig
úr sænginni nauðuga dró
Í fáti, ég barnið mitt gripið ei gat,
en grátbændi að ná í það þó.
Sá eini í þeim flýjandi hópnum var hún,
sem heyrði eða skildi mig þá.
Hún leit til mín blíðlega: Biddu mín kyr,
eg barninu þínu skal ná.
Svo sneri' hún við hiklaust og henti sér inn
í háskann, sem sloppin var frá.
Hún frelsaði krakkann, en komst ekki af
og kramin í rústunum lá.
— Nú minningin hennar það einungis er,
sem auðsýnt fæ þakklæti mitt.
Svo útförin hennar sé heiðarleg gerð
eg heiti á liðsinni þitt;
Og bústu við launum, eg borga þau glöð«. —
Slíkt breytir fljótt áliti manns,
Ef hrasaðir veslingar verða honum sæmd
og viðbót í tekjurnar hans!

Og sjálfsagt fann presturinn þarna til þess —
og því gat hann talað svo snjalt,
Að nú var hún hetja, sem liðin þar lá,
og líkfylgdin vissi það alt.
En »frúin in göfuga« viðstödd ei var,
þó væri' henni málefnið skylt,
— En »vandaða útför« hún samt hafði sent
í sinn stað — því henni var ilt!
En prestskonan var þar — en þögul og þur
og þóttaleg var hún að sjá,
Og dró að sér kjólinn, svo kæmi hann ei
við kistuna, er gekk hún þar hjá.
— Á leiðinni heim aftur var það nú víst
sem við urðum tvö saman ein;
Um afreksverk Ragnheiðar ækslaðist tal
því út úr — hve lestin varð sein.
Eg gat um, að helgaði oft hálfglatað líf
ein hugrenning göfug og djörf,
Að við gætum aldrei um eðli manns dæmt,
en aðeins um játning og störf.
Að eg væri fulltrúa, að fyndist þó loks
í framtíðar ómælishyl
Það gull, sem að óþekt í aurunum lá
og atvikið gróf ekki til.

Hún svaraði að eins: »Mér dylst ei, hví drýgt
að dáð þessa Ragnheiður gat.
Í sölurnar lagði' hún ið sárdaufa líf,
sem sjálf hún að vettugi mat.

Við sneiðum hjá frægðinni flest, ef að hún
er fullkeypt — eg skil mína þjóð.
En hjá okkur konum er kjarklausast þó
ið kúldaða íslenzka blóð.
Þó gestunum tökum við glaðlega mót
og gjöfular séum við þá,
Hver einasta hugsjón er húsmóðurlaus,
sem hjúkrun né þjónustu ei á.
Og lífsreynslan svæfir vort siðferðisþrek
og sundrar því, lið fyrir lið.
En hver sem að fellur, en þorir ei þó,
er þróttlaus að reisa sig við«.

---

## XVIII.

### „Svo fyrirdæmi ég þig ekki heldur".

Og það var nú frá liðin tveggja ára tíð,
af tilburðum sárlítið geymt;
Og Ragnheiðar ævi og endalok var
nú öllum, sem veðráttan, gleymt.
Í þorpinu sama, og samfylgdarlaus,
eitt sumarkvöld staddur eg var.
— Eg glögt mundi húsin og göturnar enn,
en gleymt hafði mönnunum þar.
Mér hugkvæmdist — eflaust af óþreyju samt,
þó að því ei stór væru brögð —

Að ganga út í reitinn inn rólega þann,
 þar Ragnheiður síðast var lögð.
— Til framandi landa ég bróðurhug ber,
 þar brestur á viðkvæmnin ein,
En ættjarðar-böndum mig grípur hver grund,
 sem grær kringum Íslendings bein.
Eg skil, hví vort heimaland hjartfólgnast er:
 öll höppin og ólánið það,
Sem ættkvísl þín beið, rifjar upp fyrir þér
 hver árhvammur, fjallströnd og vað;
Og það er sem holtin sjálf hleypi í mann þrótt,
 þar hreystiraun einhver var drýgð;
Og svo er sem mold sú sé manni þó skyld,
 sem mæðrum og feðrum er vígð.
— En legstaðinn fann eg — og varðaðan vel,
 þó var samt ei grafskriftin rétt,
Því »Sally O'Hara« úr letri ég las
 í línu, sem efst var þar sett;
Í næstu, hvern dag það í desember var,
 sem dó hún, og ártalið þá;
Þar neðan við »Daisy« — svo fólk gæti fræðst,
 hvers »forlag« um kostnaðinn sá.

1898

## Smalarnir.

---

Þeir hlýddu hirðis kalli
Og hingað vestur slæddust —
Að kirkju-fé á fjalli
Þeir flönuðu og læddust —
Hver réð til sín rakka
— Þeir röskustu til skifta —
Að trutta sauðum og tyfta.

Og alt gekk sem í sögu
Og samlyndið var blessað,
Þeir ráku rokna þvögu
Í réttina til þess, að
Stía og rýja,
Með stóryrt skjall og gumið
Um sig og framkvæmda fumið.

Sú sæla samtengd spiltist,
Þeir settu á bandið snúning,
Svo bræðra-lagið byltist.
Þeim bar á milli í rúning!

Að fæla og þvæla,
Sem flesta hver frá öðrum
Við hvert barð, urðu að beita öllum fjöðrum.

»Of dramblátur og drýginn
Þú dygð og sannleik grefur—«
»En þú ert þrár og lyginn
Og þar að auki refur—«
Þeir sentust á svörum.
En smá-rakkarnir geltu,
Opnum skoltunum skeltu.

Já, ýmsa ætti að flengja,
Sem embættislaun hafa.
Eg þori ei þá að rengja,
Því það er ekki í vafa:
Að verðleik hvers annars
Af viðkynning þeir sýna —
Og svo kvað guð þekkja sína!

1896

## Konungsminnið.

— Til Þorsteins Erlingssonar. —

Hirðmenn skófu út hneykslið það,
Að heyrðist konung-drápan þín.
Gott — þér kom í kollinn, að
Kasta perlum fyrir svín!

1907

## Vegsemdar-fylgjan.

Eg veit, þú sýnist sæll í gæfu-byrnum
Af sigurlofi hverri tungu á —
Hver mýrtus-krans er kóróna af þyrnum,
Sem kemur við mann þegar líður frá.
Oft er snæfra, að verja en að vinna
Virðing sína og trúnað vina sinna.
Sérhvert einlægt heiðurs-skin sem hlýtur
Hálkar skeið þitt, hvaða leið sem brýtur.

1907

## »Hrymur ekur austan«.

Þú, sem fyrir ljóssins leiðir
Lokum skýtur snæs og frosta,
Sinu-jarðar sem að eyðir
Sólskins þrá og daggar þorsta.
Þú, sem heldur ill-sætt erfi
Yls og skjóls á lögðum hyljum,
Yfir hjarnsins kulda-hverfi
Kyljar jólasálm af byljum.

Þú, sem höll og bekki bragar
Býsnir einar skipa lætur.
Synir þínir: daprir dagar,
Dætur þínar: helju-nætur
Sitja þar í skikkju-skautum
Skapa-norna allra goða.
Væsa á þínum vetrarbrautum
Vindkaldur og Angurboða.

Þú, sem málar hrímgrátt heiði,
Hengir geiminn skuggamyndum,
Útbýr jörð sem opið leiði
Orpið skorpnum beinagrindum —
Þó að enginn æðasláttur
Yli hjarta í þorra-kveldi:

Hættir allur andardráttur
Undir þínum bjarnarfeldi?

Jötunmóður mjallahvítur,
Miskunn er í þínum voða!
Surtar-logans sviði bítur
Sárra þínum kulda-doða —
Meðan að þín martröð kæfir
Meðvitund með aldeyfingu
Læknishöndum svölum svæfir
Sárindin í tilfinningu.

1907

## Brúðkaupsljóð.

Og fyrst er hún saumuð í silki og lín
Sú sagan um brúðkaup, af dóttur og syni.
Svo velur hún fleira í verkefni sín:
Í við er hún skorin og krotuð á tini.
Í eir er hún símuð, í silfurskjöld steypt,
— Og sæmilegt er það og maklega fer það —
Og einstaka sinnum í gull er hún greypt
Og grópuð í demant — en fátíðast er það!

Þið brúðhjónin ungu, sem byrjið nú hér,
Eg bið ykkur fulltingis komandi alda:
Svo öll þessi brúðkaup — þá bjóðið þið mér —
Í búskapnum ykkar að þið megið halda!

Og gangi það alla tíð eins og í dag,
— Á eir eða gull hvað sem helzt verður skrifað —:
Að þið látið enda á brúðkaupi og brag
Þann bitrasta vetur, sem fólk hefir lifað.

1907

---

## Sjómannaslagur.

I.

Þér brúðgumar sæmeyja, synir vors lands!
Þér sjómenn á floti og allur sá fans,
Sem mararbotn flekkjar og fjörurnar hans.
Þér fangar þess örlaga-bands:
Að liggja á sætrjám í logndvöl og byl,
Sem lífsstundir endast og djúpmið ná til.
Að bjargast um svartnætti úr sogandi hyl,
Þó sjáist ei handanna skil.

Við tíundum fall ykkar, tregum það heitt,
En teljum ei langlífið slitið og eytt
Sem orustu lýðsins til elli gat þreytt
Og orðstírlaust bát sínum fleytt.
Og þó er það grimmasta hryðjan, sú hríð,
Sem hefst strax að morgni í óveðra tíð
Og helzt fram á vökuloks háttamál síð,
Og harðast ið langdrægsta stríð.

Því hitt er svo stælt fyrir liðfúsa lund,
Sem landsfórn að blossa upp örskamma stund,
Að hníga sem kempan með hjörinn í mund,
Sem herskildi ver sína grund.
Því þó að þú sökkvir, þá siglir það orð:
Að sækóngur stórlátur gekk fyrir borð,
Sem norður á hafsbrún tók strandhögg frá storð,
Við stormsins og ísanna morð.

II.

Í drápsveðra ofsa gekk ægir á lönd,
Svo ekkju-bær drúpir og mannsköðuð strönd.
Við ágangi hafalda reisti ei rönd
In röskasta sjóvíkings hönd.
Þær báru upp andvana útverði lands,
Þær íshafsins valkyrjur: straum-gjalpa fans.
Á brimhvítum skjöldum af skipsþiljum manns
Þær skiluðu valköstum hans.

Við göngum með byrðarnar — þungfærir þó —
Af því sem við björguðum heim undan sjó,
Að læsa það inn í þá rambygðu ró
Þar rastirnar festa ei kló —
Frá lágarði, skerjum og lón-dranga nöf
Í líkfylgd slæst stormur með andþrengsla köf.
Og brimgnýr við strönd fellur hingað um höf
Sem helreiðar dynur að gröf.

1907

## Pegasus.

Lötrar loftgötur
Lausbitlaður,
Lotinn, lágfetull
Ljóða-gandur. —
Gengnir úr greipum
Gröndals eru
— Föllnum af fáki —
Frægir taumar.

1907

## Arsreikningurinn.

I.

Ég hef' aðgætt ársreikninginn minn,
Afföll gerð og hagræðin í vonum —
Hef' svo líka litið yfir þinn,
Lagsi heimur, gert mín stryk í honum.
Okkur eg á bagga-vægið bendi —
Banka-töflur eru ei samt við hendi.

Hleyp þó yfir öll, á þeirri leið,
Óviss gjöld, er skáka bezta ráði:

Frostnóttina, er sáðjörð okkar sveið,
Sólskinið, sem aldrei til vor náði.
Þar eg inn í okkar reikning skrifa
Uppjöfnuð, að búa kyr og lifa.

Fyrirgefðu! eg tjónið mitt ei tel,
Talnabrotum öllum smærra og lægra.
Inn í þinn er þörf að skygnast vel,
Þar á veltur hlutfalls-dæmi stærra.
Eg vil reyna að sjá hvað er í sjóði,
Segja hreint, hvað muni skuld og gróði.

Mér varð hamla í hárri reikningsment
Heimskan mín og afdráttur þinn bæði,
Sem í æsku ekkert gátu kent
Óvita í þinni tálnafræði —
Heimur, umber aðferðina mína.
Öfugt set eg dálkana við þína.

II.

Bústofn þinn var úrlausn — útlát huld —:
Alt er skynjun, líf og sannleik kenni,
Hann er erfð og alda-gömul skuld,
Eykst því meir sem grynnir þú á henni.
Ársvinnan þín, æ og þessu sinni,
Öll er bráðaþörfum tífalt minni.

Þessi fúlgan stækkað hefir strax,
— Stapp þó sé, hvort hún á nokkrum þyngi —:
Hafi féndum mannkyns morðfélags
Móður eflst á liðnu friðarþingi.
Margra alda miðar það að sanna
Mikla skuld í reikning guðs og manna.

Þó að hafi fáment ljóssins lið
leyst úr töfrum biblíur og eddur,
Þá er eins og espast hafi við
Afturhald og grafnar skottu-kreddur.
Bezta vit sitt spakir heimskað hafa,
Hundraðfaldast þörfin af að skafa.

Þó menn æski alþjóðlega sitt
Eigin gagn í bræðralagi að reka,
Torveldast að taka fyrir hitt:
Tvíræð orð, sem grunnhygnina fleka,
Undan steinum orðanna að fiska
Einkaleyfin, hver á sína diska.

Hafi oss aukist yfirburða vald,
Anda lofts og jarðar hemja að vinna:
Þrældóms-okið — sem kvað syndagjald —
Sezt ei á oss hlutfallslega minna.
Mammon legst nú þungt á þý og herra —
Þroskun sú er fram úr illu í verra.

III.

Heimur, okkar höfuð eru ei sterk!
Hvílum oss við þessa talna-bálka. —
Það er sorg og sinnuleysis verk
Samanlagning skektra og langra dálka.
Viðrum okkur, sjáum þá hvað setur,
Sörlumst út, þó nú sé kominn vetur.

Er ei þessi grenihrísla græn,
Gegnum alt sem fryst og snjóað getur?
Ættkvísl hennar ólst upp sólskins-hæn
Áður en jörðin þekti frost og vetur.
Þessi breytti, í stopul-viðrum storða,
Stuttum yl í langan vetrarforða.

Ekkert guðsskjól gætir hennar í
Grimmviðrum og kófi norðandrifa —
Líf, sem hepnast, hallast sjálft að því
Hollvænasta, nær svo til að lifa —
Sólar-ylur bak við svarta börkinn
Býr í merg þér, iðja-græna mörkin.

IV.

Útiloftið hefir, heimur minn!
Hrest oss upp og liðkað hugsun alla.
Tifum létt á ljóðafótum inn,
Ljúkum af um reikning þinn að fjalla —

Það sem ávanst af þér hefir gengið —
Eign er hnossið séð en ekki fengið.

Hvílík auðlegð! sjáið þennan sjóð!
Sundurlynda, níðings-fótum troðna
Rakna við og þreifa um, sterka þjóð,
Þrældómshlekkinn blóði sínu roðna!
Gálgahamar hröktum reistur bændum,
Heimur minn, er gull í mund og vændum.

Lít á safnið, sem að vex og grær,
Samandreginn margra alda forða!
Þar sem okrið allar dygðir flær,
Iðjusemin stritar hungur-morða —
Þú átt eftir árið þetta góða
Óeyddan og lögum trygðan gróða.

Og hjörðin þessi — óskert er hún enn!
Yfir hana ná ei tölur margar:
Þeir, sem urðu hvorki menskir menn,
Meinlaus dýr né sæmilegir vargar —
Lengi þyngir þína gróða-keltu
Þetta fé, er komst á slíka veltu.

V.

Rengdu ei, að sé reikningsfærslan góð!
Réttur hagur skárri en suma dreymi um.
Einmitt við hjá svona vörðum sjóð'
Sannleikann og æsku vora geymum

Eg hef' ekki einu sinni talið
Aukatekjur, margt sem í er falið.

Við erum ekki ársins leigðu hjú
Útgreidds kaups úr búi húsbændanna.
Við erum báðir, vinur, eg og þú,
Veiðimenn í óbygð hugsjónanna.
Okkur þær í allra veðra og vona
Viðlagssjóði tryggjum við nú svona.

1907

---

## Draupnir.

Þrír eklar bjuggu við úlfdala sæ,
Við einstæðingsskapinn og tómlegan bæ,
Því Ölrún og Svanhvít og Alvitur — bornar
Á and-fleygum svanavæng — þeim vóru horfnar.
Sem sæblámi vorlags og sólskin á tindi,
Með sjö ára kærleik og heimilis-yndi.

Og Egill og Slagfinnur skriðu á skeið
Á skíðunum niðri um bygðir og heið.
Þeir eltust við svífandi sönginn og fleygan,
Þeir seildust af jörðu að grípa 'ann og eiga 'ann,
En sífelt slapp veiðin úr vænglausum höndum
Í vonbrigða-hvörf út' í framtíðar-löndum.

En bauga sló Völundur — byr undir væng,
Í baðstofu-kulda og ekkjumanns-sæng.
Því þráin hans skildi það: Alvitri eiga
Að engum var dælt nema Völundi fleyga!
Því hvað mega fætur í veðrum á vorin
Með vængjunum fylgjast, þó greið séu sporin?

En þungt var til aðdrátta, áreynslan hörð
Við einyrkjuskapinn og fátæka jörð:
Að mölva og bræða sér góðmálm úr grjótum,
Að gullkornum leita í sandbleytu-fljótum,
Á daginn við ólokin erindi stríða
En andvöku-nóttunum verja til smíða.

Og alt sýndist hálfverk þeim hótfyndna smið —
Þó hringarnir fjölguðu, bætti hann við.
Hann átti á seilinni sjöhundruð bauga —
Við síðasta hringinn skein gleðin úr auga,
Því armæðu-dagarnir hjá vóru hlaupnir,
Hann hafði á endanum lokið við Draupni.

Á armlegg manns dreginn sem hóf mann, sem hug,
Um himin og undirdjúp tók mann á flug.
Sem eiganda bar hverja níundu nóttu
Þá niðja, sem dýrir og jafn-göfgir þóttu.
Því svo var hann gerður af gæfusmið högum,
Úr gulli því eina, sem frjótt er í sögum.

Og þegar á bandið sitt Draupni hann dró,
Að dagsverki loknu, þá kvað 'ann og hló:

»Nú lauk eg við grip þann sem hafði í huga!
Þann hring, sem að dugir til auðs og til fluga.
Og þar fann eg samleið um sólheiðið færa
Með svanavæng þínum, þú Alvitur kæra«.

»Og mér er nú sama um meiðsli og rán,
Þó meinviljinn ræni mig, á ég mitt lán!
Því aldrei kann Draupnis hann Níðuður njóta,
Og nú má hann fjötra og leggina brjóta.
Og hann situr eftir við upphafning mína,
Með erfiðið mitt, en með skömmina sína«.

»Í sjöhundruð baugana lagði eg list
En lífinu kom í þann síðasta fyrst.
Því leikfang varð Hnituður, glæsing og gaman,
Úr glundroðans litbrigðum sléttkræktur saman.
En hver sem á Draupni fær háfleygi af honum,
Og hugsanir vaxnar og nýjar í vonum«.

»Eg sló í hann alt sem eg hugsaði hátt,
Úr hjartanu bæring og æðanna slátt.
Og fyrir það ljómar af listinni hlýrra,
Og lýsigull hans er því kostugra og skírra —
Og þau eru ei hálfverð 'ans hundruð á þræði,
Því hann varð að skáldskap, en þau urðu kvæði«.

1907

## Vofan.

---

I.

Á meðan á gamlárskvöld gleðjum við oss,
Og glaðværð er raun ef menn þegja,
En hvetur að syngja eða segja,
Því sjórinn er lagður og fent yfir foss.

Eg hreyfi til samlætis svolítinn streng,
— Og syng mér úr skuggunum yndi —
Eg sneri 'ann úr veðrum og vindi
Og minning, sem undir á gamlárskvöld geng.

Þið heyrðuð um vofur, sem villa um menn
Á vetrum á íslenzkum heiðum,
Unz fönnin varð langræði af leiðum —
Eg kvað um það sögu, og kann hana enn.

II.

Hann lagði upp árla þann alfaraveg
Og yfir þá misfarar-heiði,
Sem vísar frá vöggu að leiði,
En hélt ekki þjóðleið, sem þú eða eg.

Því honum fanst tilsýndin töfrandi fríð
Og takmarkið sporanna sinna,
Og gætti svo götunnar minna,
Unz dró fyrír sólskin og syrti að hríð.

Er liðið var hádegi, og hræsvelgur rauk
Svo heiðin varð fannburðar-iða,
Við eitt var hann áttina að miða:
Hvert heitið var förinni — ei hvernig hann fauk.

Og dagurinn eltist, og tæpara til
Alls torfærs með geislunum náði.
En snarfluga snæljósið gljáði
Úr harðfennis tinnu, sem hrökk fyrir byl.

Og óveðrið batt sinna alskýja gnótt
Um augun á stjarnanna skara —
Þá eygði hann fram undan fara
Þá von, sem hann elti um ófærð og nótt.

Hann fylgdi á eftir, og fulltrúa var
Að færi hún stefnuna sína
Á glugga, þar gesta-ljós skína,
Sem hugur og vilji 'ann hálfa leið bar.

Og ef að hann staðnæmdist, stóð hún og beið.
Og styrmdi yfir, leit hún til baka
Sem yfir því væri að vaka,
Að benda 'onum áfram, að beina 'onum leið.

Í framkrók var örðuga gatan hans gerð
Að grípa 'ana, svo að hann næði
Að klappa í stein eða kvæði,
Svo ákveðna sýn og svo indæla ferð.

Hann gætti að sporum, þar sté hún og stóð
Sinn stíg yfir lausamjöll gengin,
En afmáð þau vóru eða engin —
Hún barst fram sem hugsjón — þær brjóta ei slóð.

Hann gekk svona heimleiðis hríðinni í
Í horf, meðan nóttin hans entist —
Í hvarf fram af hengjunni hentist!
Og ofsjónir gleymast í gilinu því.

III.

Eg man, er hann fylgdarlaus frá okkur rann
Og fortala hreif ekki nokkur:
Við krupum og krossuðum okkur
Og báðum guð synja oss að sjá eins og hann.

Það stafaði af vofu, að verða svo ær
Og villan í augunum stóru —
Og munnmælin vitni þess vóru:
Þeir týnast sem ganga í trölls-hendur þær.

IV.

Er veðrið varð hagstætt, við hófum þess leit,
Hvar hrafnarnir kjáðu yfir vökum —
Það létti á samvizku-sökum,
Að koma 'onum dánum í kristinna reit.

Í veðursæld hittum við leiðarstig lands
Sem lagði inn afvegafarni.
Við röktum hans harðspor á hjarni,
Og óhultir gengum upp ógöngur hans.

Hvað oss fanst gatan hans greiðfær og slétt,
Er gengum þær nýfundnu lendur
Með heiðríkju um háfjöll og strendur,
Og víðsýnið indælt og áttin hans rétt.

Það varð nú um sumardag sólbjartast skeið,
Og svartnættið skammærst á vetri,
Því fundin var bæjarleið betri
Og útivist gagnstytt á öræfa leið.

Og leitarmenn viljugir lögðu á sig,
Að lesa úr snjónum hvert fetið.
Því það var til metnaðar metið:
Að þreifa upp' sporin hans, þræða hvert sig.

Og förin hans tíndu upp hjörtun vor hrærð —
Við hörmuðum alt sem var liðið:
Hvert kafhlaup á sköflunum skriðið.
Við viknuðum yfir hans umbrota-færð.

En hvern var að aumka? Hvers hafði 'ann mist?
— Í hvæsingi ísaðra fanna
Hann sjálfsagt var sælastur manna,
Að finna hér krossgötu og klífa 'ana fyrst.

1907

---

## Draumur.

I.

Sko, hérna er efnið úr draum' sem mig dreymdi
Um dagseturs bil, áður kveikt vóru ljósin.
Er hangandi tungunni hrepps-þvaðrið gleymdi,
Sem heimsendir gysi yfir bústang og fjósin —
Þá drauma, sem vakandi viljanum hlýða
Er vit í að muna og stundum að þýða.

En hjátrú og myrkfælni marki þá drauma
— Og mægist við Jósef og Danél að þýða —:
Er meðvitund lúð hefir lagt frá sér tauma,
En lausbeizlað minning og ímyndun ríða
Á viðburð og hugsun, um vakað og liðið,
Í vinglaða gandreið um draumóra sviðið.

II.

Mér fanst þarna dreymandi í fámælgis tómi,
Með Friðþjófi nýlátna að Síon mig bæri.
Eg slæddist með sál hans að síðasta dómi,
Að sjá hvernig stórglæpa-málið hans færi -
Því karlmenni var 'ann og harður til hefnda
Sem hervald og lögreglan barð' hann til skemda.

En samt var mér ant um hann—Orðstír minn segir:
Eg amist við góðsemd en hæli því versta!
Í róg dríf eg skammirnar þvert, eða þegi —
Eg þekti til Fríðþjófs, en alt til ins bezta.
Og tíðum var hæfan í hneykslinu bogin,
Úr hégóma atviki drápsaga login.

Nú brást það með Friðþjóf — Hans aumingja öndin
Varð uppvís, og kæran svo meinstögluð klausa,
Og samhljóða vitnin sem báru á hann böndin,
Með blóðugar nasir og fleiðraða hausa.
Hjá sumum því gildustu sannanir fylgdu:
Til Síonar rak hann þá án þess þeir vildu.

Og lögbókin margtók það: »Mann skalt' ei vega«,
Því meðmælti Kristur í boðskapnum langa:
»Gef hempu-þjóf stakkinn þinn! Léttlyndislega
Við löðrungnum snú þínum óbarða vanga«.
Og eftir því kvaðst hann sér æskja að sé lifað,
Og undir þá kvöð hefði Tolstoj sinn skrifað.

Öll lög stóðu á Friðþjófi — Leizt mér ei á það!
Af líkunum réð hvernig dómurinn félli —
Í geðsmuni hans var nú sígið, eg sá það
Á svipnum og því, að 'ann hækkaði á velli.
Hann gengdi: »Þau sakvætti sannleikann bera!
En svo litla athugun verð eg að gera«.

»Eg fæst ekki um lögmálið, læt það nú vera.
Eg lasta ei viðaukann Krists, ef hann á við —
En undir það málefnin mín hér að bera
Er misbeiting rangfærðra laga — Þið sjáið:
Við kvalræði sjálfs míns þó krosslegði hendur,
Er kristnihald í því, sé náunginn brendur?«

»Eg drep á því svona: Ef sé eg í voða
Er saklaus í fúlmennis greip og í böndum,
Er alsýknt að láta hann óhindrað troða
Á als-bjargarleysi og blaka ekki höndum?
— Já þið færið boðorð og lögmál í letur!
En lífið er flókið og kostina setur«.

»Hann Vilhallur dómari — vitni ykkar, þarna —
Með vaglið á auganu og blánefið klesta,
Komst við hjá mér. Satt er það! sízt skal þess varna
Að sakleysing hengdi 'ann mér tókst þá að fresta,
Hann tafðist að krækja svo líkum að lögum,
Að lífláta mann eftir grun-ýkjusögum«.

»Á Bölverki ármanni sér það með sanni,
Að svolítið aðhald hann fékk til að þegja.

Hjá örkumla, fáráðum flæðiskersmanni
Sinn féránsdóm tafðist hann þá við að heyja,
Og bagi varð honum að biðrauna dögum,
Að bera þann út eftir skuldheimtu-lögum«.

»Eg flæki ei málið, eg er ei að ýkja!
En aflsmun þeim sveifst eg ei hnefann að bjóða
Sem stofnar til mannrétt og samvizku að svíkja.
— Því sál manns og þjóða er jafnræðið góða!
Og undir þá sölu er sjálfsmorð að skrifa
Sem séreign manns skerðir að þroskast og lifa«.

»Já, víst sló eg frá þeim sem lífshættu lá við,
Og lögmálið braut eg — en stóð hvergi á mínu.
En les upp þess skuld sem er dasað og dáið,
Þú dómsmála-ritari, úr bindinu þínu!
Hjá fjölsynda-bálk mínum, framar hjá yður,
Það finst — sé það hæft, að þú skrifir alt niður«.

— Nú sljákkaði í Friðþjóf'. Þeir tólf fóru að tauta
Og tönla upp dómrök úr venjum og letri —
Og Bréfa-Páll sveif milli sjö himna skauta,
Og svart-ýrð varð brúnin og krumlan á Pétri.
En Jóhannes dæsti yfir dundi því einu,
Að draga upp skepnur, sem líktust ei neinu.

Þá hrópaði Marta: »Sem húsfreyja og þerna
Eg hjá ykkur rázki er komið í vana —

En takið hann Friðþjóf í töluna hérna!
Við Tolstoja og guðsmenn þarf einhver að stjana.
Og mér væri hjálpsemd í handsnöru kyni
Að hirða um þá ráðvöndu Maríu-syni«.

1907

---

## Í páfagarði.

I.

Og hann hafði svarist og signst upp á það,
Að sitja eins og hraukur í nesi
Og mjakast ei út fyrir afvikinn stað
Um ævina, hvernig sem blési.

Og trúlega hélt hann þann samninginn sinn.
Hann sveikst ei um tíðast og fljótast
Að hnykkja sem fastast þau agnhöldin inn,
Sem ætluðu að mást eða rótast.

En breytt hafði nágrend um búskaparlag
— Þó bæina eins léti heita —
Hann sá það og vissi, en söng þennan brag:
Af synd sprettur vit til að breyta!

Hann hlóð upp hvern torfgarð, þó tyldi ekki neitt
Af tildrinu mein-fúna og illa.
Flest störf hans og ræða var rústarverk eitt,
Tómt ramb við í skörðin að fylla.

Ef hjúin hann spurðu, hvort afbrot var enn
Ið einfalda og bersýnilega?
Hann sagði þau væri ekki vísindamenn,
En viðsjált ið al-náttúrlega.

Þó fann hann, að viðhaldið varð honum strit,
Að vanblessun settist í búið.
Ei afli né fjárhöld, sem færa mest nyt,
En flest, sem var úrkast og rúið.

II.

Og félítill sat hann með ellinnar ok,
Í öngum með vonirnar feldar —
Menn reyna það einatt í erindis-lok,
Þá austrið er skýjað og kveldar.

Hjá hinum var búsafnið hundraðafalt,
En hans hafði af 'onum rakast.
Og það sem að lafði var úrkynjað alt
Og uppdráttarsjúkt — Það var lakast!

Hann fann til, sem allir, er íhaldi mest
Gegn eðli og grun sínum vinna.
Þeir virða sem fórnir sinn blóra og brest
Á blótstalli dygðanna sinna.

Því vönduðum dreng getur dulist, hvor leið
Sé dygð sinni færust til enda,
Ef sannfýsi og trúlund við embættis-eið
Á öfugu göturnar benda.

Því íheldni vönduð er úrkostablind,
Sem aldrei má fyrir því trúa,
Að fremja þá hugprúðu sálgæzlu-synd:
Af sannleiks-ást heit sína að rjúfa.

Þó sannindi einföld í samhengi máls
Sé sýnd, á hún ráð það sem styður,
En það er: að verja sig viti sín sjálfs
Og vægðarlaust hrópa það niður.

III.

Og bugaður sat hann með ellinnar ok,
Sá öreign, og rústirnar feldar —
Og það verða ömurleg erindislok
Þá austrið er skýjað og kveldar.

Hann varðist ei andvarpi — uppgefinn þar —
Sem óskundans reynd hafði fengið
Á því sem 'ann hélt í, og hinu, sem var
Burt hrifið og af honum gengið.

»Eg hjörð þína varði sem úlfbitin er,
Hefi erilinn staulast og þolað —
En Drottinn minn góður! hví merktir þú mér
Alt merglaust og andlega volað«.

1907

---

## „Óvinnanleg borg".

—

Kirkja þessa lýðs og lands,
Lausakona hagsmunanna,
Forustan við dubb og dans,
Dufl og trúðleik fjárbrellanna.
Þú ert bygð á björgum föstum:
Biblíu og tenings-köstum.

1908

---

## Lausaliðinn.

— Roosevelt forseti. —

Rósfell minn, eg þakka það
Þínum víkings huga:
Þú hefir hrópað hvað sé að —
Hvort sem ráð þín duga.

Eitt í þína sögu sezt
— Sem ei reynist gjálfur —:
Þú hefir rift og riðlað mest
Ránsflokk þínum sjálfur.

1908

## Spámenn og klerkar.

Himinn hætti um spámenn
Að hlutast á jörð —
Kirkjan vor telgdi sér trjámenn,
Að titta þau skörð.

1908

## Úr dómarabókunum.

—

Eg beið, að sjá hvað bilt þeim yrði við
Þá búðar-loftför Kristjáns vors og Gunnu —
Jú, þeim fanst perla prúða smákvæðið
Í »Pilti og stúlku«, lásu það og kunnu.

Í »Qvo vadis« sögu sá eg blett,
Við siðferðinu bjóst með vönd og hrífur —
Með húsfrú Neró hoppuðu þeir létt
Um hnotskóginn við gömlu Róm og Tífur.

Og alt var dýrð í dönsku og ensku leir
Og dygðaspegill Forn-Gyðinga myndir.
Um »Kareninu« og »Kreutzer« sögðu þeir:
Að kærleikurinn hyldi margar syndir.

Frá Ási kom hún »Ólöf« svo til vor —
Hver ástadís skóf gróm af sínu hlaði,
Og siðferðið kraup sárveikt út' við for,
Og sakleysið fékk spennu í hverju blaði.

En einn eg hérna og öfundsjúkur stend —
Með undrun lít eg þessa stóru-dóma,
Sem bölsótast og brigzla honum Gvend',
Og berjast um með allra kvenna sóma.

1908

---

## Manngildið.

Engin höll er of há fyrir hnokinleik þinn,
Þó að hásætum raðað sé þar. —
Engin kró er of lág fyrir konungdóm þinn,
Ef að kvikandi líf blaktir þar.

1908

---

## „Smekkmaðurinn".

Mér er óglatt uppi í sveit,
Ei með háborðs-vönum!
Eg, sem úti í rósa-reit
Rauðgraut át með Dönum.

1908

## Líf.

—

Alt er lífs, því líf er hreyfing,
Eins ljóðsins blær og krystals-steinn,
— Líf er sambönd, sundurdreifing —
Sjálfur dauðinn þáttur einn.

1908

## Syndafallið.

—

Sögunni kveikti ást hans á,
Úti í náttmyrkrinu,
Svo af heitri þjóðarþrá
Þögul orðin skinu.

Nú á von og löngun lands
Leggur hann annan dóminn —
Því er á seinni sögum hans
Sortnaður allur ljóminn.

1908

———

## Reynslan og skáldskapur.

Skáldin hafa efni á
Ótal fleira en nutu —
Stundum málar þeirra þrá
Það sem aldrei hlutu.

1908

## Kosningastökur.

Plötur slær nú prettvísin,
Pólitík er bogin.
Dælan gengur út og inn,
Afflutt mál og login.

Ef Kanada við stjórnar-starf
Stæltist rógsins hreða,
Einhver »Fjanda-fælu« þarf
Fyrir það að kveða.

1908

## Karlmennirnir.

Séum við ei, sætur ljósar!
Sérstaklegir kvenna-Bósar,
Erum flestir, fljóðið bjarta!
Fjölkvænis-menn enn í hjarta.
Það er að segja: af heimsku hreinni
Höfum dást að fleiri en einni —
Vildir þú, ef vel er kannað,
Viljug breyta mér í annað?

1908

## Réttar áttir.

Víst er gott að vera hjá
Vina-sveit og grönnum,
Og kunna réttar áttir á
Allri bygð og mönnum.

1908

## Tíða-vísur.

---

### I.

Svo, nú er hann genginn, sá gaddleysu vetur
Með gæfviðra ólyfjan — því fer nú betur!
Tóm glýjan var hjómgeislinn hlýinda-snauði
Og heldofi frost-þelinn bládauða-rauði —
Það hvorki var gróður né greftraður dauði.

Um marflatar sléttur og hrísbrekkur háu
Öll hálf-velgja og kvillar á berangri lágu.
Og andrúmsloft fúlnaði af haustdauða í högum,
Sem hálftrúuð skáldsögn úr biblíusögum
Og almennings siðir af afturhalds-lögum.

Hver pest sat um heilsuna, hrjáði 'ana og skerti.
Hver hreyfingar-blær, sem að jörðina snerti,
Lét sóttnæmis reimleikann rjúka á fætur
Við rotnaða grastó og vatnsýldu glætur.
Alt heilbrigt varð blindandi hræeiturs ætur.

Það smaug inn um lokaða veggi, sem vofa,
Það viðraði um úti-loft, hallir og kofa.
Það stóð, eins og legíó óhreinna anda
Og ósýnilegra, til beggja manns handa,
Að ráðast á höggstaði hreystinni að granda.

II.

En nú er hann genginn, sá gaddleysu vetur
Með gæfviðra ólyfjan — því fer nú betur!
Í fagnaðarerindum viðleitni og vona
Er vorið í nánd, eins og hjúkrunarkona.
Hver nývöknuð gróðrarþrá sýnir það svona.

Og vatnsskúrin hvíta, með voðir að baki
Af vorskýjum flakandi, spyr: Hvort eg vaki!
Og sjái sér árdegi í auganu skína?
Og úti við slær hún mér kveðjuna sína
Með regndropa-fingrum á rúðuna mína.

1908

## „Jehóva var ekki í vindinum".

Hér ríður nú Alfaðir veraldar-vegi
Á vindinum uppi á grænskóga-teigi,
Og Sleipnir slær greinarnar háu frá hnjánum
Og hrýtur um laufin svo þýtur í trjánum.

Af rjúkandi faxinu regnstraumar boga,
Svo rauðhitna skeifur, að eldingar loga.
Og sólin, sem glampar í gustbólstra síum
Er gullhjálmur Óðins, sem veður í skýjum.

Því Óðinn ei bíður, svo logn sé sitt leiði,
Að loftið sé ugglaust og sólskin í heiði —
Hann andaði á jörðina vökvandi vindi,
Svo veröldin grátfögur sýndi sitt yndi.

1908

## Haustmorgunn.

Hér í nótt um húsið mitt gekk rosinn,
Heiddi og kyrði morgunlýsa grá,
Skreið með jörðu skugga-kólgan blá,
Undir henni héruð hélu-frosin —
Kvíði eg við, að verða nú að fá
Varpann minn og blómstrin mín að sjá
Dauða-föl í dag, með kalin brosin.

Fanstu ei hroll og húmsins ófagnaði
Hverfa í skyndi í yls og geisla spor,
Þegar sólar mitt á milli og vor
Stjörnu-skuggann bar á stöku staði?
Er sem hnípni hugur manns og þor:
Horfa á svona frið en bráðkvödd vor!
Sólmyrkvann í sveitabóndans hlaði.

En þau gleðja enn þá mörgum sinnum,
Æðra lífið þeirra vel eg skil:

Hafa sent úr varpa ilm og yl
Inn í húsið, þennan sem við finnum —
Við oss skilin, vetrarloka til,
Verða í hverjum snjóa-rökkurs byl,
Sólskins-stund í heimamanna minnum.

1908

## Kveðja.

— Til Jóns Ólafssonar, ritstjóra. —

I.

Fyrst þú hefir kvatt með kossi,
Kvæðin mín fyrst enn þá ná þér:
Kem eg hér með stuttar stökur,
Sting þeim undir koddann hjá þér.

II.

Man eg það, er ýmsir aðrir
Eintóm ljón á vegi töldu,
Árla í stríði þinnar þjóðar:
Þú gekst drengur fram um skjöldu.

Síðan lékstu að höggva upp hurðir,
Hvar sem bæld var frelsis-þráin —
Það eru ótal höft á henni
Harðlæst, eins og stjórnarskráin.

III.

Oft fanst manni dauft, að deila
Danska bandið skárra og verra —
Það var sem um hálfa hleifa
Hrikti stundum öll sú snerra.

Það var sízt að þakka Dönum —
þeir eru bræður okkar synda,
Bara ein af álögunum
Allsóþörfu, er menn sér binda.

IV.

Seg mér: Hverju er út að etja,
Eða hvaða þörf á hrinu?
Þegar bara um bitamuninn
Bitist er í herfanginu.

Æska, manni er þá lokið
Ef hann bjargar sínu verki —
Sigurvon þín sjálf er frá þeim
Sem í völlinn stungu merki.

V.

Lögberg vort varð langbezt svona:
Lokuð björg um völlinn tóma,
Þögla skrínið þar sem geymir
Þjóðin sína helgu dóma.

Það skal sjást, að forðum fórstu
Fremst með goðorð vorrar aldar,
Þegar loks um Þingvöll sögu
Þú með svipum búðir tjaldar.

Þökk fyrir starf hjá flokki og fólki!
Flyttu þínar hærur prúðar
— Bónleiður, en eins og áður —
Æskuskeið til hinstu búðar.

1908

---

## Landvarnarbálkur.

»Ísland«.

---

Útgarðs-vörður fegurst' ríms og rúna,
Ránar-drotning, sezt í álfur tvær,
Grænmötlaða, feyki-földum búna:
Fjallaeyjan, móðurjörðin kær.

Þú hefir snortið eldi með og anda,
Eyjan litla, marga fjarri strönd.
Þegar fjöllin þín í glóðum standa
þá fer kippur gegnum önnur lönd.

Það hrökk margur lás af liðum hálsins
Landvættanna þinna skjóli í:
Eldgígsins með arnarvængi bálsins,
Ássins þíns með snæ og þokuský.

Kjörkaups-snópur örum áratogum
Undan flýtti og seglum stögin hlóð,
Þegar hnjúkar veifðu vafurlogum,
Vexti brim og hregg af landi stóð.

Tungan þín með strengjum söngs og sagna
Setti um Miðgarð frjálsan lista-vörð —
Hjá þér enn, í rökkri allra ragna,
Rofar fyrir nýrri og betri jörð.

Þú átt líka sumar sól-skínandi,
Sæludal og yndisstunda-hlíð.
Meira er hitt: ei eru í öðru landi
Öræfin eins hjartanlega fríð.

Tára-bjart er blikið yfir holtin,
Brunahraun og gráan ægi-sand.
Beinin vorra feðra feigðar-soltin
Frjóvga þau og helga þetta land.

Vermist upp og vökvist þessi moldin!
Víst er gull í þessum hauga-eld —
Aldrei skyldi gröfin þeirra goldin
Gjaldi, og túnin niðja þeirra seld.

Leið þig sjálfa! Fólk þitt verður fríðast
Frjálst með sig og þennan erfða-blett —
Trúðu ei barn, sá bróðir muni ei níðast
Bróður á, sem togar loginn rétt.

Trú því ei, að vina virðing safnist
Við að lúta ósanngirni í hag —
Fyrsta ráð, að réttur manna jafnist,
Ratast til að fáist bræðralag.

Enn er sætt, þó sigri ei tímans vörnin,
Sé ei fargað ósanngirni í vil —
Hinum, sem í fáti binda börnin,
Bölva þau að hafa verið til.

— Það er mætt að minnast þín í ljóði
Móðurjörð, við þetta flúna lið!
Hvað á annað útlaginn í sjóði
Óðinn þann sem staðið gæti við?

Eyjan vor, þú varpar öllum böndum,
Verður frjáls og gengur heilla-stig!
Þá skal yndi úti í vesturlöndum
Að eiga dag og syngja fyrir þig.

1908

---

## „Það sem í boði er“.

—

Glaður vildi eg vera frjáls,
Vita ei björg til næsta máls,
Heldur en vera æti orðinn
Út' við dönsku húsgangs-borðin.

1908

## „Mentaþjóð viðurkennir rétt vorn“.

—

Þú skalt vera frí og frjáls,
Félagi í orði.
— Gylt er yfir meinbug máls
Músa-gildra í borði. —

Yfir sjálfan samninginn
Set eg dómnefnd mína —
Gildra fyrir, góði minn,
Grunnhygnina þína.

1908

## „Ráðagerð Skúla mætti mótspyrnu frá öllum".

—

Ef til sannleiks kasta kemur
Kveddu' hann upp með tveimur, þremur!
Svo kvað skáld — þó ei það ygði,
Að eins-dæmið sitt Skúla dygði.

1908

## „Samningnum eykst fylgi".

—

I.

Íslenzk nefnd í óförum,
Erindsreki Dana,
Helzt með forspám fallegum
Fóðrar samningana.

Alt með vona-vöflum má
Verja í líf og blóðið —
»Er við sjálfir erum frá
O, hvað skaðar flóðið!«

Rýjum þeim ei reynist sár
Reikningur á klöfum —
Áður en þrjóta þrjátíu ár
Þeir eru niðri í gröfum.

II.

Aldrei vissi eg barnið brent
Bjánlegar fara:
Sé á hnýtta hlekki bent,
Heyrið svörin bara!

Þau eru svo, ef svikult eitt
Sýnist öðru fremur:
»O, því verður ekki beitt!
Aldrei til þess kemur!«

Ef þar hárvist áttu þið
Erlent kærleiks-vaðið,
Til hvers var að tefjast við
Að troða hinu á blaðið?

Við er blasir meir og meir
Minkun lands, in stóra:
Hreppstjórn Íslands eru þeir
Yfir hana að klóra.

III.

Þú hefir Ísland, farið flatt,
Flón við samningana —
Það er bezt að segja satt:
Sigurinn er Dana.

Þeir hafa úrskurð odda-manns
Yfir vesöld þinni.
Sleppi-lukku loddarans
Leyfa ei einu sinni.

IV.

Víst er hvast af kóngsins vind —
Keyrð með bita og sopa
Þegar sér útföl kvæða-kind
Kúgar sig að ropa.

Loftungur með styrk og staf
Standa á sólar-hæðum,
Róta fúlum fúlgum af
Flekkuðum daður-kvæðum.

Leirugt klingja kimla-bönd
Um kóng í ríkis-brauði,
Með Íslands hafra á örfa hönd,
Á æðri danska sauði.

V.

Þeir, sem kjósa í greipar glæs
Glata þér fóstur-storðin,
Blinda þeir augu bókar-læs?
Byrgja þeir fyrir orðin?

VI.

Endirinn fyrir augun ber
— Engum sigri hrósa —
Sé eg þá, þó sitji hjer,
Sem samningana kjósa.

Hver einn danskur sonar-son
Samning þeim er gróði —
Stjórnin á, það er nú von,
Alt með dönsku blóði.

Meðfætt eðli í átt þá snýr
Öllum spena-vönum,
Þessum, sem í búi býr
Bita-von hjá Dönum.

Mangaranna húrra-hróp
Hlessa samnings-okur.
Undirtyllast í þeim hóp
Allra-búða lokur.

Mannleysið, sem íslenzkt er,
Eins mun þangað feta:
Þeir, sem fyrir sjálfum sér
Sér ei trúað geta.

VII.

Líður tíð — það sést nú senn
Sem er helzt í kvisi:
Hvort að Íslands óláns-menn
Orka verstu slysi.

Stjórnarfylgið eflaust er
Eftir málstað valið —
Þó er að sjá hvor þing-skjöld ber
Þegar alt er talið.

Syrtir að Íslands orra-hríð
Undir haustský gránuð — — —
Úrslitanna eirinn bíð
Allan næsta mánuð.

1908

## „Kosninga-úrslitin“.

—

Þokast fram, sé þrælsóttanum lokið —
Þrekraun fyrsta er: nei, að taka upp okið.

Hins er sízt að synja: í öllum löndum
Sesar getur lent í þjófa höndum.

Þeir munu samt ala og um 'ann hirða
Eins og hann sig sjálfur kann að virða.

1908

—

## Jón Jónsson frá Strönd.

—

I.

Strandar-Jóns á steðja
Storknar riðið.
Smiðju-afl er orpinn
Ösku-gjalli.
Lækka stroknir lokkar
Lokarspóna.
Nú er greypt í grópum
Gaflhlað efsta.

Jón gat haga hugsun
Heitt að afli,
Sló og stælti á steðja
Stál til góðverks.
Vinskap út úr viðar
Völum skar hann,
Trúleik sinn hann telgdi í
Trausta-smíði.

Snild hann átti að erfðum,
Engan lærdóm.
Hug og mannvit mikið,
Minna af fróðleik.
Kjark og afl við örðugt,
Atlot færri.
Skaplund skörung-mennis,
Skjallmál engin.

II.

Hver mun geta kufl sinn
Klaka-brynju varið,
Úti í allra veðra
Yrjum lengi staddur?
Sínum innri eldum
Aftraði Jón að snarka.
Þó þær gröfnu glæður
Gysu ei upp, þær vermdu.

III.

Sá eg í sveit
Samstæðinga
Aldra erlendis,
Íslendinginn!
Fastan fyrir,
Frjálsmannlegan
Hóf og hik
Hálegg hverjum:
Hremmilegri í herðum,
Handfastari,
Auðvirkari um illkleift,
Orðhvassari,
Falslausari á ferðum,
Fótvissari —
Líka Jóns í ljóðum
Lít eg núna!

IV.

Eg hef' Braga
Björgum stuðlað
Að þér illa,
Íslendingur!

Kveifar eru í kvæði —
Kuml er hlaðið

Úti um öndvert nes
Erlends héraðs,
Vestur-víkingi,
Verr en skyldi!

1908

---

## Útigöngu-bikkjan.

Táta mín, þú eftir ert
Og þó hægt sé lötrað —
Svo hefir dauðinn haftið hert,
Hófana léttu fjötrað.

Sneiði eg hjá, í skini og skúr,
Skeiðflötunum þínum —
Það er fokin fjöður úr,
Ferðavængnum mínum.

Vekurð þinni ei á var orð
Eða sprettum fljótum —
Þó hefir aldrei strokið storð
Stóðhross mýkri fótum.

Sléttað gátu gjótu og hnaus,
Götuslitra hrökin:
Útigengin, eldislaus,
Órög fótatökin.

Leiðstu fram sem lygnstreym á
Leystan flytur jaka,
Þegar syngja sundi á
Silfurbjöllur klaka.

Hataðir þú við heyja-stalls
Hjúkrun þig að baka,
Þú tókst heldur ábyrgð alls
Úti á bláum klaka.

Blær á þínum bleika kjól
Boðaði vor í ári,
Þegar gylti glaða-sól
Gull á hverju hári.

Glóði undir ýrðri brá
Í augans skygða málmi
— Arfur viltum feðrum frá —:
Fjöður af ægishjálmi.

Baggana þína að barstu mýkst
Bæjarfræg er saga,
Undir söðli dáða-drýgst,
Drotning úti í haga.

— Hvað er um orðstír út í frá
Eirðarlaust að dreyma?
Nóg er að lifa og luma á
Listunum sínum heima.

Fyrst þig nú um völl og veg
Vantar, finn eg bagann:
Síður gerist geðfeldleg
Gatan út í hagann.

Vertu sæl! og þökk sé þér!
Þúfu moldar undir.
Þínum bleiku beinum hér
Býð eg góðar stundir!

1908

---

## Vatnsveitingar.

Drýpur af öllu dropatal,
Dæla höll og múrar,
Votu fjöllin velta í dal,
Vatnaföllum skúrar.

1908

---

## Sól-laukur.

Í sólskinsbletti á hæsta hól
Sem hallaðist að aprílsól,
— Sem fyrsta viðbragð vorgróðans
Úr visnun yddi á grænkoll hans.

En flókahetta á höfði var,
Á herðum röggvar-feld hann bar.

En svöl var fold og fjúkugt loft,
Og frostnæturnar langar oft.
Og næðings-kul blés illa um
Hvern angurgapa á nærklæðum —
En þó að tog hans þætti grátt
Var þelið niðr'i silkiblátt.

Hann hækkaði og hékk við völl
Og hretin stóðst og lifði öll.
Á sumardaginn fyrsta fyrst
Hans flóka-gríma opnaðist.
Þar stóð hann himinboga-blár
Í brekkunni með sólgylt hár.

Og skálin hans var gul sem gull,
Af geislum sólar barmafull.
Og blöðin ljósblá lyft og þönd
Sem loftheiðríkja í bikars rönd.
En undir börmum ýrði í rautt,
Sem æðablóð þar glitti blautt.

Æ, komdu sæll! Eg syng um þig,
Þú sumargjöf, í ætt við mig!

Sem sprettur upp og fellur fyrst,
Sem fyrstur hefir átt og mist —
Um vöggu og gröf hvers vöku-manns
Eg vefði þig í sveig og krans.

1908

---

## Góða nótt!

— Kveðja til áheyrenda sinna. —

Nú er hlúð að hverjum ranni,
Haustið vofir yfir manni.
Bæði í koti og kastalanum
Dregin kol að kjallaranum,
Bóndinn hleður brenni-köstu.

Öldin nýja um ár er stytt!
Það hefir bráðum sýnt alt sitt,
Jónsmessu og jólaföstu.

Góða nótt!
Sumarlíf og ljóssins yndi,
Langdegið á hverjum tindi,
Vor og gróður: Góða nótt!

Út' með braut, til beggja handa
Ber og hokin lauftrén standa,

Varpa hvorki á grund né glugga
Geislum brotnum eða skugga.
Ljósið inn með leyfi flytur,
Litlaus móska úti situr.

Úti á mörk og mitt á stræti
Marrar kuldinn undir fæti,
Sem á ráman streng menn stigi.
Stjarna er byrgð í hverju skýi.
Hýrast nú við arineldinn
Árgalinn og sumarkveldin.

Þá ættu undir þak að flytja
Þeir sem veðurteptir sitja,
Alla sína sumardaga,
Sólskins-bletti úr túni og haga!
Enn er list og alt ið sanna
Ellistyrkur góðra manna.

Þegar eftir þrotinn daginn
Þið eruð heima og lokið bæinn,
Og með hélu og hríðar-skugga
Haustnótt lengsta tjaldar glugga:
Vappi inn úr vetrar-móðu,
Vordraumarnir ykkar góðu,
Þeir sem rætzt og ráðist hafa,
Rekkjur ykkar ljósi að stafa,

Unz þið sofnið sætt og rótt —
Þá er útrýmt öllum kvíða
Um þau morgunverk sem bíða — —
Stundar-gestir: Góða nótt!

1908

---

# AFTAKA ÓEIRÐARMANNSINS.

Skuldað bókmynd af *»Aftaka nihilistanna«*, myndinni frægu, eftir rússneska málarann V. Verestchagin.

Og ekki var hugsjón hans hegning né laun,
Nei, hún var alls manngöfgis sjálfskyldu-raun.

Og sigurbraut fólks opna forystur þær
Sem falla nú örar, en markinu nær.

## Keisarinn.

---

I.

Um stund var óhug létt af vöku-vörðum
Sem væri afstýrð drepsótt fram hjá liðin,
Því ómyrt hirð í hertýgjuðum görðum
Um hallir gekk og varðsveit geymdi hliðin,
Og alt var kvikt og kreikt — En sprenging engin,
Og keisarinn til málastofu genginn.

Það átti ei neinn í öllu þessu veldi
Sér óhult líf, þó stríðið gengi í hljóði.
Og borgin sat og skalf á undir-eldi
Af olíunni úr þjóðvinanna blóði.
En ófrelsið með yfirlætis brosi
Stóð alvopnað á landskjálftum og gosi.

II.

En keisarinn að eigin undirriti
Á annars skipun settist volduglega —
Sá smáskornasti og væskillegsti að viti
Og vexti í sínum ráðsal konunglega.

En til þess valdboð stæði rétt í stafni
Hver stjórnarglæpur framdist í hans nafni.

Hann fæddist landsins forsjón. — Höll og hreysi
Mat hallkvæmt það, sem skapi sjálfs 'ans hæfði.
Og flest hans grimd var veila og viljaleysi
Þess vits og hjarta, er uppfóstrunin kæfði.
Þó tilhneiging hans girntist ei hið illa,
Hans innra líf var ræktuð sannleiks-villa.

Hann sat því djúpt í sekt um öll þau firni
Af sorg og kvöl um víðar landsins bygðir.
Hans sess var hróksvald allrar eigingirni
Sem okraði með lífsnauðsyn og dygðir
Hans þjáða lýðs — svo vilmálg til að veiða' hann,
Jafn viðbúin að myrða hann og leiða' hann.

Og þetta ríkisráð, sem stjórn hans prýddi,
— Svo ranglátt stundum — var þó landsins blómi.
Og vald þess, sem 'ann hræddist en þó hlýddi,
Var höfuð fólksins, konungdómsins sómi!
Ef alt í flokk þeim ekki var sem trúast,
Hjá örmum skríl við hverju var að búast?

III.

Öll stofu-skrautverk glóðu en ekki glöddu,
Sem grafhvolf Faraós hugur manns þar eygði.
— Og ráðherrarnir biðu, komu, kvöddu
Og kurteisin sig drembilega hneigði.

En viðsjá skein úr lipurð, tign og lotning —
Með leikbros uppgert beið þar kaldráð drotning.

Að háttum kongs síns gaf hún gætur hygnar
Sem göngu peðs, er taflbrögð kæn að sverfa.
— Æ, hvílík önn! sá valt-stóll valds og tignar
Sem vöggu-sveinninn hennar skyldi erfa.
Hún átti hvorki ástalíf né trygða,
En ættarvernd var kjarninn hennar dygða.

Og blævís eins og birna fyrir húni
Svo blíð og glöð og tíguleg þar stóð hún.
Og varnargarð að einvalds-eignar túni
Um erfða rétt með kvenlist sinni hlóð hún.
Því það kom stanz á hjörtu — ef ekki huga —
Í hennar nánd til ókvæðanna að duga.

IV.

En stjórnarherra hárra kirkjumála
Brauzt hirðleið nú að fúsu konungs eyra.
Hjá guði og kongi gekk hann jafnt á mála,
Því giltu líka tillögur hans meira.
Í tveimur heimum bæði á eldi og anda
Hann átti ráð, og vó til beggja handa.

En kongi fanst sem biskupstungan brendi,
Sem blíðmæli hans öfugt við sig félli,
Og legið gæti í hringnum á 'ans hendi
Sú höggormstönn, er lytjaði sér elli,

Því óttans nag með illra slysa vonum
Varð áfjáðast í nærveru með honum.

Hans vald var stórt, sem svona sat að ríki
Með Seif og Hades, bæði uppi og niðri —
Nú kom hann þó í ljóssengilsins líki
Í líknarferð í harðstjórninni miðri.
Hann átti þátt í öllum ríkismálum,
En enginn vissi' hann bjarga týndum sálum.

Í krökkum sæg af tilskipunum tómum
Um takmörkun á þjóðar lífi og högun
Gat slæðst inn bæn um vægð í dauðadómum
Frá drápsnefnd hersins, settri gagnstætt lögum.
Að ráða henging hnefarétt' var falið
Og hervaldið til framkvæmdanna valið.

V.

»Á miskunn yðar máli því eg kasta
Vor milda hátign! ræð til þess og bið að:
Sá fanginn, númer átján-þúsundasta,
Sem á að hengja mætti sleppa við það!
Því líf hans sparað látinu hans getur
Til landhreinsunar dugað okkur betur«.

»Því hann á ráð á bótum sinna brota —
Ef boðskap yðar lagavaldið hefur
Til ríkisheilla að niðurfella og nota
Slíkt náðarleyfi er yðar hátign gefur:

Mun yðar ríki verða þægst til þrifa,
Sem þjónn þess ef hann fengist til að lifa«.

En keisaranum fanst nú mjór og magur
Sinn mikilleiki, að ríkja á einni línu!
Hvert lævíst ráð, sem lék á annars hagur,
Að leppa upp með tignarnafni sínu!
Að lúta — en eiga hæstráðandi að heita,
Og hroki og fússið egndu' hann til að neita.

En þó varð grimd hans þrátt í fulla hnefa,
Að þurfa og hljóta bæn um líf að neita.
Því konunglegt var lífi að ráða og gefa
Og lögum hærri að eigin þótta breyta —
Og auðvelt var, að skipa að skjóta og sprengja
Upp skríl-þúsund, en þyngra einn að hengja.

Í bráð var stríðshlé — stöðvuð upphlaups-skriðan
Sem stólinn hans og veldi brást að græfi —
Og fanginn, þessi þurfi — á aldur við hann —
Sem þekti' hann ei né kyntist við um æfi!
Sem á var trúað öllum vandræðonum
Í allsóvissu. — Mynd af sjálfum honum!

En svipur leið í ljós, frá minnis dögun,
Af leikbróður, sem þá var kær — nú týndur —
Jafn drengilegan dreng í hug og högun
Hann hitti ei þá né síðan hann var krýndur.
— En var ei snaran vís til þó að hálsa 'ann?
Og vinarbragð að setja þennan frjálsan?

VI.

En drotningin með hörku í skapi hulda
En hýru-viðmót stælt í svipsins línum,
Öll málsgögn vó með kven-lævísis kulda — —
Hve kanzlarinn var líkur herra sínum!
— En ramefldari að rögg og eigingirni —
Sem rauðkinnungur fylgdi skógarbirni.

Hún kunni deili allra þeirra ætta
Sem illu heilli keisarinn var tengdur.
Sem kóngamóðir hún á það varð hætta,
Sem hann var sjálfur leyndur um og rengdur.
Og hneykslin öll, sem hirðsiðirnir dylja,
Var hennar ætlun þarft að vita og skilja.

Og kanzlaranum var ei hjarta hlífið
Af hvöt til þess að neinu væri bjargað,
Svo viðsjált var að leyfa neinu lífið
Sem lagði' hann til að ekki væri fargað.
Því mannúð hans var reiknuð gjöf til gjalda
Í gróðabrögðum sinna eigin valda.

Það sá hún glögt: hér flaut ei ráð af flani,
En framgirni hans sjálfs það kæmi að haldi,
Ef gæti' hann — með að verða ei bróður bani —
Haft byltinguna líka á sínu valdi — —
En hún — sem ein á vögguverði stendur —
Hlaut vægðarlaust að fella á báðar hendur.

Og dæi fanginn, ein var yfirstigin
Sú ættarhætta, er vofði altof nærri —
Og seinna, er kannske kanzlarinn var hniginn,
Varð konungserfðin skyldugri við færri —
Að halda ríki í rétt-tilbornri hendi
Var réttvísinnar fyrirlag og endi.

— Hún sendi kóngi úrlausn alls þess vanda
Í augnaráði, gleggra máli á vörum.
Það sagði ljósort: Láttu dóminn standa!
Og leystu sjálfs þín höfuð svo úr snörum —
En hann sat óviss hvar á mætti taka,
Við hana, sig og kanzlarann að slaka.

Unz bænheyrsluna beztan veg og gengan
Hann basli þessu og kröggum fangans sá í.
Því bæði í því að hengja og ekki hengja 'ann
Slapp hann þar sjálfur mest-jafngóður frá því.
— Í kongs-eyðuna nafnið sitt hann setti
Og samþykt skjalið kanzlaranum rétti.

## Frelsishetjan.

---

I.

Sú lagkænska kvaðst lýðfrelsisins sál,
Sem »Landsréttindin« steypti á skrifstofunni,
Þar veggir heyrðu, en vírar höfðu mál
Og vizkan ausu í hverjum Mímisbrunni.
Þar gaus upp undan opnun ketilloksins
Öll afhleypt gufa stjórnarbóta-flokksins.

Því »Landsréttindin« — lýðhyllinnar blað —
Á legg drógst þar í prentsmiðjunnar jötu.
Að náð og vizku vaxandi fór það
Og vera þótti ljós á fólksins götu —
Úr frelsiskröfum flíkaði það molum,
En froðaði á stjórnar handaskolum.

Sjálf frelsishetjan hérna ríkti og bauð
Og heyrði sérhvern skeðan hlut og orðinn
Og grasið hækka og haustull togna á sauð,
Sem Heimdallur við loftregnboga sporðinn.
Hann gróf upp stjórnarvítin sér til vara,
Fékk veðurspár um gætilega að fara.

Hann sætti lagi öllum stefnum í,
Sló að og frá með sömu lund og reglum.

Og stjórnvizkan hans stóra falst í því:
Að stela byr úr allra flokka seglum!
En þökk fyrir alla áfram-göngu hlaut 'ann
Og almenns hróss við fyrirtafir naut 'ann.

Og bótatilraun sérhvers merkismanns
Hann mótstóð eða beygði sér til þarfa,
Og semja sig að hentugleikum hans
Hver hugsjón varð, sem eitthvað þráði að starfa.
Og samt var engin af þeim glæstu fjöðrum
Sem á sig stakk hann, nema reitt af öðrum.

En árangurinn alls hans stælu-stríðs
Var stjórn, sem lét þar alla báta fletja —
Og þarna sat hann, lausnarinn síns lýðs,
Og landsins stóra sál og frelsishetja!
Hans þjóðstjórn var við konungdóm í kyni,
Og hvort gat ríkt og sæzt á annars vini.

Sem ríkið, hafði' hann úti allar klær
Í öðrum flokkum, njósn í hverju skoti.
Og hann við það í hestakaup var fær
Á hrekkjabrögðum, kæmi slíkt að noti — —
Mun andstæði og alræði það bannað
Að eiga mök, en sitja hvort um annað?

II.

Hún leið þar inn svo hljótt — og kvaddi hann —
Sem hefði 'ún upp í draumi óvart runnið.

Með barnsins sigursvip í augum, þann
Sem sýnir trú á keppikefli unnið
Og von um blíðu-þakkir þess að hljóta
Til þægða er vildi sig í mola brjóta.

Hún öll var hjarta er honum unni og vann —
Hún hefði neitað því sem bezt hún tryði
Og farið hverja hrakför fyrir hann,
Ef honum bara yrði það að liði.
Og hver 'ans ósk var hennar hæsta merki
Í hugtökum, í fýsnum og í verki.

Hún hefði fórnað farsæld sérhvers manns
Og fegurð sinni og dygðum, þúsund sinnum!
Að hreppa launin: blíðu brosið hans
Og byrgjast inni í þökkum hans og minnum —
Nú kom hún inn frá erindum að skýra,
Í ómálefni og flækjum æfintýra.

## III.

»Eg gróf upp óleik þessa konga-kyns
Og kænskubrögðin í þess veldisskákum.
Eg sópað hefi úr sorpi orðrómsins
Upp sannleikann, úr rógi og bætiflákum —,
Með lymsku þjófsins las mig, þinna vegna!
Að lægstu rótum uppspunninna fregna«.

— »Sá hangir uppi andað lík í kvöld
Sem uppreist lýðsins hóf í verki og orði —

Og hásætinu skilar enduð öld
Til erfingjans með nýju bróðurmorði.
En óstjórn sú er feig og fellur bráðum
Sem fylgir skuggi af grimd og Loka-ráðum«.

»En sannast er um upphlaupsmanninn þann:
Að erfðum syndum tók hann við sem hinir.
Þeir eru bræður, biskupinn og hann
Og bastarðar, og kongsins föðursynir.
En keisarinn með liði sínu og löndum,
Varð leiksoppur í þessum bræðra höndum«.

»Því hann er óskabarn þess hjónabands
Sem blindar spinna konungs-erfða nornir —
En þeir, að sönnu synir föður hans
Og sinnar móður, en ei konungbornir.
Og landráð er að láta það ásannast
Sem lögerfðirnar banna við að kannast«.

»Einn riddarinn vann rangeið hjónabands
Í ríkisþörf, til vörzlu konga-sögum,
Og kanzlarinn ber herranafnið hans
Sem honum gekk í föðurstað að lögum —
Hann systur á — en er ei hennar bróðir,
Hún á hans föðurnafn, en sína móðir«.

»En bróður átti' hann, sammæðrung við sig.
Þau systkyn óskyld feldu hugi saman
Og viltust á þann æfintýra stig,
Þar ástin verður dýpri en hirðfólks gaman —

En lögsek ódáð, aftaks-glæpa jafni,
Var elskan þeirra — systkina að nafni«!

»Svo æskan þeirra í ókvæði það féll,
Með ættfærzlunni venjan hlaut að sanna:
Að tengd sú væri synd og sifjaspell
Gegn siðalögum guðs og helztu manna —
Svo týndist heitið hans með auðu sæti.
En hirðmey varð hún, glaumsins eftirlæti«.

»En þetta er hann, sem deyja á í dag,
Sem dánarvitni lýðveldisins myrta —
Og slíkan sigur, harðstjórninni í hag,
Má heiminum sem endalokin birta
Á viðleitni hins vonarlausa múga,
Að velta af sér fargi þeirra er kúga.

— »Þau lifðu að elskast. — Untust með sín bönd,
Við ofskart hún, en hann með fangahelsi.
Og þéttar tengdust þeirra hjartabönd
Um þáttinn sama: lýðsins hag og frelsi.
Frá hallargarði í hlekkja-kytru bundið
Lá hjónaband, um sálir þeirra undið«.

»Í dag eru einvíg um hans sál að há
Þau ást og klækur. — Bróðir hans og systir.
Að líf hann þiggi, en svíkist sínu frá
Er sigur fyrir stjórnkænskunnar listir.
En drengsbót hitt: að falla lík að lögum,
Á lífsvirðisins hinztu skuldadögum«.

»Eg sé það vel, hvor vinnur nú það skeið,
Hvor verður drýgri á þessum leynigötum.
Því konan alténd kemst þar skemstu leið,
Hún klæðist til þess allra bragða fötum —
Og vitni þess er tildrið mitt og tálin,
Sem til eg vann, að ná í leyndarmálin«.

IV.

Hann settist við ritborðið handbært þar hjá
Þar hugkvæmdust orðleikir snjallir
Í stjórnmála-töluna þjóðfrægu, þá
Sem þaullærðu málskúmar allir:
Hver voði sé stjórnleysið vargshöndum í,
En vanmegna harðstjórans drápsvél gegn því.

---

## Bandinginn.

—

I.

Nú skein inn um grindurnar gamalárs sól
Um glugga á fangelsis-klefa,
En litverp stóð skíman við bandingjans ból
Sem bending þess kvíði' hún að gefa:
Að hann yrði lagður hjá liðinni öld
Á líkfjalir þegar hún settist í kvöld.

En það jók ei öngur hins afdæmda manns,
Að endirinn væri svo nærri.
Hún varð jafnvel auðbærri einveran hans
Sem yrðu nú stundirnar færri —
Að smáfinna helgreipur höndla sinn ná
Með heiminn sér lokaðan, það tekur á.

Hann vaknaði ei nýskeð jafn hreyfur og hress,
Og huglétt var kúg-þreytta geðið —
Í æskunni margsinnis morgunsins þess
Um miðvetur eins hafði 'ann beðið
Með bráðlæti unglingsins birtingu í,
Að byrjuðu leikir og hátíðafrí.

En núna var efnið í ánægju-brag
Þess áramóts lífsvonar snauða:
Að losast úr fjötrum og fangelsi í dag
Af frjálslegri glæpamanns dauða.
Því lifandi að hengjast var hamingja rík
Hjá hinu, að fúna þar tórandi lík.

Og stutt var nú þreyttum, að þola sér við
Öll þrengslin og hlekkina grimmu,
Í dag tæki enda hans ára-tugs bið
Í andfúlu gryfjunni dimmu.
Að fá þó að róta sér! Reyndar svo skamt —
Að rétta sig upp! Móti dauðanum samt.

En þó var hann óeirinn af því það drógst —
Hve ósköp var morguninn langur!

Í járngluggans smaug fyrir löngu var ljóst,
En lagstuttur dagsólar gangur —
Þó fangavist afskræmi útlitið manns
Var óhrörnuð tignin í manns-svipnum hans.

En gengið var fríðleik — Sé fegurðin það,
Að falli ei hörund að beinum
En klæði alt slétt, eins og brotalaust blað
Sem ber ekki ritmörk frá neinum,
Að lifandi andlitsfall alt verði sett
Í íþróttar-hlutföllin dauðyflis-rétt.

Um fannhvíta ásýnd ið innfjálga blóð
Rann ísblátt, sem lindir í sprungum,
Og þar sáust spor — eins og gjár eftir glóð —
Af glaðværð og hugraunum þungum.
Því lifandi elska og barátta bjó
Sem bál undir þessari eldjökuls-ró.

En sjálfstjórnarvald hans á sérhverri taug
Laut samræmi ákveðins vilja,
Gat fúlustu alvöru andhverft í spaug,
Lét ástríður taumhaldið skilja —
Sem hamar og leiftur í lófum á Þór
Hver lífshvöt í sjálfs-hendi, voldug og stór.

Og víst hafði' hann tekið af ætt sinni að erfð
Þá aðalsmanns höndina smáu

Og góm-mjóu fingurna, fatta að gerð,
Og framkúptu neglurnar gljáu —
En þrútnuðu knúarnir, hnýttir til hálfs,
Ei hylmdu yfir átök á dögum hans sjálfs.

Af gildleik og hæð sinni hafði 'ann þó mist,
Því hold var af beinunum runnið.
Og svo höfðu fjötrar og fangelsisvist
Á fyrirmanns vaskleik hans unnið —
Því loks verða bognar í beinasta skóg'
Þær bjarkir sem standa með kafþök af snjó.

En hví sat 'ann hneptur og horfinn að björg
Og heillum og nauðlega staddur?
Hvort var hann ei uppvís um ódæði mörg
Og illverk, í sjálfsvítið kvaddur?
Og var 'ann ei heimskunnar háðungar-fórn
Sem hindra vill guðsnáðar einveldisstjórn?

Víst féll á hann grunur, og færðist til sanns
Af fréttaburð' út og í hljóði,
Að það væru flekkir á hendinni hans
Af harðstjórans konunga-blóði —
Í garðshorni hverju fanst Súltan og Sar
Sér svikræði búið, og hann standa þar.

Við kóngs-morðið þusum við — þú eins og eg —
Og þegnsdrápi köllum það stærra.
En rati vor heimastjórn hrekkgirnis veg
Að hertaka land sem er smærra:

Þá æpum við sífelt, að sæmd hans sé flest
Sem saklausum óvinum stútar þá mest.

Að trú hans var óguðleg, eflaust var satt,
— Og oss hefði blöskrað sú villa —
Því hann gaf upp sæmdir og sældarlíf glatt
Með sanngjörnum jöfnuð að hylla.
Því það setur enginn með almennings trú
Þær elskuðu guðsgjafir þannig í húf.

Að ráðalaust meinleysi, réttindum gegn
Lét rýja sig, fanst honum mæða.
Og sýndist það harðstjórn og heimskunnar megn
Og hrekkvísi, er út þyrfti að blæða.
Á niðurskurð félst hann — að norðlinga sið —
Sem nauðungar-kost, en hið fyrst róna mið.

Hann las út úr sögu og sannindum óðs:
Hver siðbót við það mátti lynda,
Að alt varð svo mönnunum unnið til góðs
Að ilskan um sárt varð að binda.
Og ólygnust heimsreynsla hnilti því að,
Og húslestrarbækurnar kendu' honum það.

Hann tamdi sér varfærni vísindamanns,
Frá vissreynd sem staflaust ei flækist,
Og náttúran öll varð í augunum hans
Löng ætt-víg svo framförin tækist.
Á umliðnum tíma — og eins þeim sem beið —
Bar upphafið þröskuld á vonanna leið.

Og lærdómum kirknanna las hann það í:
Að lögum þeim guðirnir hneigja,
Að framfarir niðjanna fleytist á því
Að feðurnir hrörna og deyja.
Og drifíjöður lífsþroskans dugurinn er
Að draga sig fram, þar sem skást um hann fer.

Hjá mannviti í hástól sat hollviljað geð,
Og heiftlaust í orðum og verki —
Vor dómsjúka kristni gat sannlega ei séð
Á sál hans sín andlegu merki.
Og ekki var hugsjón hans hegning né laun,
Nei, hún var alls manngöfgis sjálfskyldu-raun.

En þó var alt manneðlið hlutdeildin hans —
Hvort hár var í sök eða minni
Þá kendi' hann til ódæða illræðismanns
Sem ættliðs í skuldinni sinni.
Og hann beitti óljúfum afskurðar-knif
Sem örþrifavon til að frelsa þó líf.

Að borinn til óðals og aðals hann var
Varð ódulið hverjum er sá hann.
En tignarnafn réttmætt að rekja, og hvar
Stóð ríki hans, vilt hefði spámann — —
Hans upptekna heiti var: Heiðalandsson,
Og höfðingjadæmið hans: Framtíðarvon.

II.

Nú opnuðust dyrnar. Og auðkennin bar
Sá inn gekk þar hljóðlátt í ranninn,
Því stéttarmark kápan og krossmarkið var —
Svo kannaðist fanginn við manninn!
En ei sýndi viðmót að þeir hefði þekst,
Á því hefði naskasta forvitni blekst.

Þó móðurhönd söm hefði sveina þá leitt
En svo færi, neinn þarf að undrast,
Því þjóðfrelsis-hvatirnar bíta svo beitt
Að blóðtengdir nánustu sundrast —
Því hvað batar aðall og ættartign hans
Sem ógleðst við raunir síns misþyrmda lands?

Sá frjálsi var biskup, og ljós það um leið
Sem lýsti í skrauthýsum björtum —
En bandinginn vargur í véum, sem beið
Í varðhöldum fúlum og svörtum —
Svo ólíkum forlögum fylgdi það böl,
Að frændsemin þeirra varð sársauka kvöl.

III.

»Ég kem með þann boðskap sem bjarga þér má!«
Á bandingjann yrti hann svona
»Því lífsvoða dómur er lagður þig á,
Og lausn þín er úrkula-vona.

En sel þú oss skildrög um samverkamenn
Við samsæris vélráð — þá bjargast þú enn«.

»Þú hugarburð' verður að fánýtisfórn.
— Ef forsjála vitsins þú gáðir —
Í réttinum situr ins sterkara stjórn
Sem staðhöfn. Því trúum við báðir!
Og trúmanni og heiðingja haldsömust list
Á himni og jörð verður: sjálfsbjörgin fyrst«.

»Og tál eru vonir, sem hugsa sér hitt:
Að heimskan við það muni skána,
Þó skríll ljái alþingum atkvæðið sitt
Til óstjórnar, hlutdrægni og rána.
Nei, keisarans þrælkun og þjóðstjórn er eitt,
Fyrst þekking og hvötum fólks verður ei breytt«.

»Já, víst ganga í súginn — svo verðleikinn hér
Sér viðhaldi — þrælsættir margar.
Ins göfugra herravald heimsstjórnin er,
Og himni og jörð það sem bjargar.
Hvern óþarfan knapp þarf að afsneiða á rós,
Og olían brennur, og því fá menn ljós«.

IV.

En bandinginn hlýddi með hátíðaþögn
Á hirðmannsins fortölu langa.
En þegar hún rénaði reisti' hann sig ögn,
Með roðablæ fölum á vanga —

Þó brýndi ei ræðu hans radd-öldufall,
Hans rómur var stiltur, jafn þungt og hann svall.

»Við því kveð eg nei, meðan höfuð get hreyft
Og hljóðfalli tungan mín veldur —
Eg þörf mína get ei með þegnskapnum keypt!
Og þigg ekki líf mitt að heldur —
Þið svift getið fjöri, en fargið ei sál
Sem föðurlands hagur varð áhugamál«.

»Eg veit að það sigrar sem aflsmuninn á,
Að ofbeldismenn skulu hverfa,
Því sterkari er fjöldinn og meira sín má
Ef málið til stáls kynni sverfa.
Og sigurbraut fólks opna forystur þær
Sem falla nú örar, en markinu nær«.

»Sú stórmenska líður til loka, sem að
Á læging eins við þarf að halda,
Sem þykist með kærleiknum klastra yfir það,
Sem kúgun og sauðheimskan valda —
Öll almennings farsæld er einstakling gagn,
Við öðrum að lyfta hefst sjálfsdáða magn«.

»Því framför er skaparinn — Skeikaði mér,
Þá skýlir sú almættis hendi,
Sem fatraði sjálfri, sem fann hvað það er
Að förlast, og til af því kendi —
Því hvar sem er alveldi ábyrgðarlaust
Er útséð um betrun og samvizku-raust«.

V.

Um síðir hún rann þó, hin sárþreyða stund,
Að sjá enn þá heiminn og daginn!
Því hvað vóru fjötrar um fót og um mund
Og frostgrimd og helslóð um snæinn
Á móti því gengi, að anda sér að
Svo albjörtu lofti, og hreyfast úr stað.

En nú var þó ættjörð hans óblíð og tvist:
Einn afdrepslaus snjóþyngsla geimur,
Ein hvítsléttuð eyðimörk ferleg og fryst,
Og frostkólgu rökkvaður heimur.
Sjálf fannkingjan vermdist af vináttu hans,
Því var hún ei skaut þessa elskaða lands?

Við böðlana gladdi' hann sig — gálgavörð þann
Sem glötun var falin hans andar —
Sem nærri því möttust um meinsemd við hann
Og meiðing. Þær hunds-sálir vandar
Til ódáða spönuðu ei geðið hans gramt.
Þau glapræða-tól vóru landar hans samt!

Og kúgaða fólkið hans! keikt var það enn,
Því kopraði ei grand eins og öðrum,
Og þeir voru kempur og karsklegir menn
Þeir kotunga-synir frá Jöðrum.
Þeim sá ekki feigðarmark ættlerans á
Frá ofnautn né dáðsveltri verksmiðju krá.

Og það var sem hyrfi öll hugraun og strit
Við huggun í framtímans augum,
Er réttist úr þrælskreppu þráandi vit
Í þvílíkum vöðvum og taugum,
Og þjóðin hans legði fram heilbrigða hönd
Og hjarta, að slíta sín vandræða bönd.

## VI.

Nú svifaði ysjan og ísingin blind
Frá austurlands fjallgarði háum,
Og klettarnir risu sem kastala-grind
Frá kald-hömrum ljósum og bláum,
Sem afhjúpað guðsverk frá ómuna-tíð
Af óloknu hugtaki úr veraldar-smíð.

En mörkuð var eyðing á öllu sem stóð,
Tóm uppbrot og sligaðar bungur.
Því Örgemlir sá sem að henglum þeim hlóð
Sinn haug varp þar sterkur og ungur.
Því guðirnir hníga og heygjast sem vér
Með hálf-loknar ætlanir grafnar með sér.

## VII.

Hann náð hafði gálgastað — Gustuka-verk
Svo gjörn eru kirkjunum orðin,
Þær böðlunum lána sinn kristmunk og klerk
Að krossa yfir löghelguð morðin —

Og ráðvandar samvizkur rósamar það,
Að réttlæti og kærleikur hjálpast svo að.

Og hempuklædd, síðhöttuð sáluhjálp beið
Þar sjálfkvödd á vettvang hans hinzta
Með eilífrar farsældar loforða-leið
Á leikvöll í himninum insta —
En honum fanst bakferli blekkingin sú,
Að bendla sig feigan við iðrun og trú.

En fagnaðar-boðarann þekti hann þann!
Sem þrot-bjarga sál kom að forða —
Þann kaus hann sér ljúfastan leiðsögumann,
Þar leit 'ann til huggunarorða.
Því leynzt gat ei sælan hans augum þeim í,
Né ástin hans dulklæðst í viðmóti því.

Og leyft er þeim viðtal — Sem vissu þau ráð
Því varðhaldsmenn biðlyndir undu — —
»Með kaupboð um lífgjöf og keisara-náð
Eg kem hér um elleftu stundu!
Að lífið þitt þægir þú, landsstjórn í vil,
Fanst líklegra ef orðkringin mín kæmi til«.

»Og hægur er skilmálinn: hug þinn að tjá
Af hverjum að landráðin stýrast — — —
Og nú bíð eg svarsins, sem úrskurða á
Hvað ást þín á kærast og dýrast!«
— Sú þrautin! að deyja frá þessari rödd.
Sú þrá eftir lífskost! ef hjá var 'ún stödd.

Og hugur 'ans flaug yfir hvern þeirra fund
Með hraðfleygi draumvængja-svifa.
Og það var sem sælan frá sérhverri stund
Nú særði og bæði' hann: að lifa.
Það tengdist í unaðar-einingu þar,
Hvað andlega skyld og hve fögur hún var.

Því víst var hún fögur sem íþróttin ein
Er orðin og litirnir blossa.
Frá svart-bólstrum augnanna sólbliðan skein,
Og sjálfsköpuð vörin til kossa —
En þó var hún indælli en lag eða ljóð,
Með lifandi andardrátt, streymandi blóð.

En samúð þess göfgasta í sál hans og vild
Var sætari en fegurð um enni.
Hver rót í hans eðli af ágæti og snild
Spratt upphvött í návist með henni,
Hve styrktist og fríkkaði henni þó hjá
Hvert hugboð um sannleik og réttlætisþrá.

Og hafði 'ún ei undið sinn örlagaþráð
Um atgervi, dygð hans og þrekið,
Sem góðvon hans alla og ýtrustu dáð
Í ástfóstur sitt hefði tekið?
Hvert spor, sem nú honum til huggunar var
Að hafa þó stigið, þess meðvitni bar.

Hann leit henni í augu, að lesa það svar
Sem lokaði vörunum klökku.

Þó drenglund hans sjálfs ætti víst hvað þar var
Í viðkvæmnis-móðunni dökku —
Hann lífi gat haldið — en ást hennar ei
Með ódygð. Hann svaraði rófast: »Eg dey!«

Hve hún varð tíguleg! Tindrandi kinn
Og tárbros í auganu glæsta,
Sem konung og elskhuga sæi þar sinn
Með sigurdjásn mannanna hæsta —
Nú stóð hún þar uppi, svo einstæð, en rík
Í ást sinni — spartversku mæðrunum lík.

Þeim spartversku mæðrum, sem missi sinn við
Í mjúkdansinn stigu sem gildi
Mót líkfylgd, sem andvana inn gegnum hlið
Bar óskason þeirra á skildi,
Sem féll þar sem orustan áköfust var,
Af ættjörð með fanginu spjótslagið bar.

En þegar sú sigurför gjörvöll um garð
Var gengin með dýrðinni sinni,
Og spartverska einrýmið viðtakan varð,
En vantaði soninn þar inni:
Mun hugraun að sál þeirra sezt hafa styzt
Með söknuð hins ástfólgna, er þær höfðu mist?

VIII.

Í snöruna gekk 'ann með hnarreistan háls
Eitt handtak og öllu var lokið —
Og svona dó bandinginn, bundinn en frjáls
En böðlar hans þyngdu sér okið —
Og tvítugrætt aldarfar taktu nú hér
Við tortímdu sál hans og líki af mjer.

Kveðið að mestu 1900 — Lokið við 1908

# FLUTNINGURINN Í NÝJA HÚSIÐ.

Heimboð eina opið var
Inn að gestabeknum þar. — — —

Dýrt og fagurt, fast og laust
Flakti dautt og minjalaust.

---

Enn þjó skast að heima-hug
Hreysið lága, gengna á bug — — —

Um sig hreiðrað höfðu þar
Hugvekjur og minningar.

---

## Tilhlökkunarefnið.

—

Allir hugðu happ í því,
Húsið nýja að flytjast í.
Ein af fegins-ferðum sú
Færslan, hlaut að verða nú,
Gamla kofans örtröð úr
Inn í þennan glæsi-múr!

Fyrir ára tugum tveim
Tóftir reistu að kofa þeim
— Hérna í auðn — við átök sterk:
Efnaleysi og flýtisverk.

Nú var gamla nýbýlið,
Næstum snarað út á hlið.
Varla þoldu veðra-blak
Veggir feygðir, sligað þak.

Þó var honum hörf á því,
Húsið nýja að flytjast í.

Inn í loksins uppbúin
Oft-tilhugsuð þægindin,
Rósemdina, rýmindin —
Ríkilætis heimkynnin,
Þar sem hlutur hver var nýr,
Húsgögnin öll fægð og dýr,
Bætt um loftslag, birtu, yl.
— Bæði prýtt og skamtað til.

Grímuklæddur geisli hver
Gekk þar um með tjald og ver.
Glitsíur og gluggatjöld
Gerðu sólskin rökkurkvöld.
Sérhvert flet var fjaðurhjól,
Flauels-mýkt á hverjum stól.
Drunga-værðar Leþe-laug
Laptist upp í hverja taug.

## Ekki heima hjá sér.

Reist þó hefði heimilið
Hann stóð sjálfur utan við.
Það sem eigið ess hans var
Ekki komst um dyrnar þar.

Hverjum hlut var öftrun í,
Engin hugsun glöð og frí.
Dýrt og fagurt, fast og laust
Flakti dauft og minjalaust —

Hann varð eins við alt það prjál
Og við himin jarðvön sál.

Enn bjó skást að heima-hug
Hreysið lága, gengna á bug:
Gamla kofa-kytran smá —

Hver hans vænd og eftirsjá
Bazt við þessa bækistöð.

Burtu liðna ára röð
Um sig hreiðrað höfðu þar
Hugvekjur og minningar.
Heimatök sín þessi því
Þekti 'ann hverju skoti í.

Stúrir hljótt við sól-lund sinn
Svona hegri vængbrotinn,
Þráir starar-strönd við sjó,
Strauma skvamp og víðflug nóg.

## Breyttir bæjarhættir.

—

»Blessun guðs sé húsið háð!«
Hafði verið fagurskráð
Yfir dyrum hásals hæst —

Hurðin var sem kletta-læst,
Digurleg og dýr, að sjá
Dyrajárn og stálvörð skrá.

Heimboð eina opið var
Inn að gestabeknum þar.

—

Gamla kofa-hurðin hans,
— Handbragð einskis listamanns —
Járnlás hafði aldrei átt,
Oftast stóð í hálfa gátt.

Þó að telgda trélokan
Tyltist fyrir haka þann
Stafinn sem var steltur í,
Stöm var hún ei fyrir því!
Því að utan lykill lá:
Lyftistrengur henni á —

Snertir þú við þeirri taug,
Þaut hún til og opin flaug.

Lítið skemtu skapi hans
Skrautverk nýja kastalans:
Forsetinn úr fægðum leir.

— Forðum dáður, nú ei meir,
Meðan hæstur hékk í sið.
— Herrann nýrri tók þar við. —

Ekkert stórt né annálsvert
Eiginlega hafði 'ann gert.
Stöðugt sína stjórnartíð
Streittist við í erg og gríð:
Alt í stömpum stæði líkt —
Stutt og gagnslaust hafði 'ann ríkt!

Uppihald hans öflugt var:
Allir dánir forsetar.
Efstur reis hann fótstall frá:
Flokkmynd þeirra veggnum á.

Úti í kofa — eitt var það -
Uppi á vegg í sama stað
Gamla fjalahillan hans
Hékk þó enn, með rusla fans.

Þar lá aflögð, illa strengd,
Orpin fiðla bætt og sprengd.
Söguskræða stíluð stutt,
Stefjablöð að heiman flutt —
Nýrri stofu lýti ljót
Líklega var þetta dót.
Þó fanst honum unun í
Enn að sitja nálægt því.

Spegilglæst og gylt um snið
Glóði dýra hljóðfærið,
— Þetta stærsta stigið alls, —
Stofudjásn ins nýja sals.

Þar, við samtök málms og máss,
Margur »valsinn« eftir Srá'ss
Eða nóta helztu hans —
Hjúfrað gat, svo yrði dans.
»Laufa-blakt« og »Lóu flug«
Liðu þar um fót og hug,
»Svana-kvak og álfta-anz«
Ómaði í taugum manns.

Úti í gamla hússins hékk
Horni — og við sama bekk —
Kornsigðin hans kengbogin,
Keifluð nú og tindbrotin.

Minti á söng og sumardans
Samt, frá yngri dögum hans.
Milli stofna er yrkjan óf,
Akurteig í ruddum skóg.
Hveitiöxin bústin, bleik,
Beygðu koll hjá lind og eik,
Sem að hreyktist himin-mæn
Hring um rjóðrið, skugga-græn.
Varði súg og svala inn,
Sólargeislann steikti á kinn.

Uppskeran bauð út í dans
Öllu kappi og fimleik manns.
Þá slógst oft í hálfan hring
Hrífa og meyja, ung og slyng.

Fann hann enn hve þá var þreytt,
— Þó að sólin brendi heitt —
Hver þar velti um vall-lönd drjúg:
Vænstum skára, lengstum múg.
Herfði niður beinast, bezt,
Bindin knýtti skást og flest —
Þá var oft sem hyrfi hann
Heim í gamla túnvarpann.

Sig í sléttu-sveit þá réð
Sigðið lét hann fylgjast með.

Hafði hvatt og hvest það að
Hveitistöng og brotið það,
Árum fyr en í hans sel
Uppfunding tók kornbands-vél.

## Þar er allur sem unir.

—

Það var eins og sveitar-svið,
Sérhver minning úti við
— Nýskeð eða endur fyr —
Endaði við þær kofadyr.

Eins og væri Hliðskjálf hans
Hornið þessa gamla ranns.
Hug og muna beztum byr
Blés í væng um þessar dyr.

Bæjarlands um þústir þeir
Þaðan flugu, báðir tveir.
Eygðu hvernig öllu leið
Aldar sjöttungs liðið skeið:
Útvíkkaðra akra spor,
Örsnjáð haust og skrúðklædd vor.
Hvernig náttfrost öxin á

Ísaði kölin gulu-blá.
Litu sáði gróna grund
Gaddi renda á skammri stund.
Þegar unnið ársverk lá
Orpið haglsins jökulgljá,
— Búhnekkirinn, bitur nóg,
Blæddi honum minna þó
Heldur en laufgað litskrúð nýtt
Lýtt og spjallað, svona frítt! —
Svifu yfir akra-mar:
Eftir slætti golunnar
Þroskuð öx í ölduleik
Iðuðu sem gylling bleik.
Dvöldust þar, sem klúkum kýld
Kornekran stóð feld en dríld.
Þegar séð og sigrað, alt
Sumarstritið kaupið galt.

Sérhvert fet þess litla lands
Leyndi von og ótta hans.

Hverjum fornum fagnaðs-gest',
Forðum er hann lék sér mest,
— Skift þó hefði mjög um menn —
Mætti 'ann hér við dyrnar enn.

Þó að væri í húsi húmt
Hjarta og skap var bjart og rúmt.

Þarna flugu um bekk og borð
Brosin fleyg og mergjuð orð.
Sérhver hugsun hispurslaust
Hlæjandi í fang manns skauzt —
Frjálsa áttu ósk og svar
Alla heima og geima þar.

Hverja götu, er gengin var,
Gat 'ann út úr hlaði þar
Rakið — alla óra-leið,
Aldar-þriðjungs runnið skeið.

Tengd við bæ hans bygðin sjálf
Blasti við og álfan hálf —
Alt sem hrærði önd og geð,
Alt sem hafði 'ann reynt og séð.

Þekti að fornu fell og lægð —
Flötin þarna, löngu plægð,
Innan-gerðis, gæf og hljóð:
Geymdi í moldum byrgða slóð,
Útbýlinga akbraut þá
Áttin fyr sem benti á
Mönnum þeim sem þreyttust seint,
Þurftu ei færi slétt né beint.

---

## Slysa gatan.

Sumarmorgun mundi' hann þann:
Móskuð sólin fyr en rann
Kólgubakkans ólgu úr
— Eftir nætur-langa skúr —
Þegar granninn hleypti í hlað
— Heila veglengd kominn að —
Mælti til hans: »Legðu lið!
Lestan mann að reisa við.
Út' við Langaleitis mót
Liggur Sveinn með brotinn fót.
Dottinn hestur fældist fljótt.
Flatan rigndi á hann í nótt.

Enn þá heit um hugann flaug
Hugsun sú — sem skar og smaug
Tilfinning, sem óx og ófst
Á meðan hann skyndi-bjóst —:

Það er eins og séu sett
Sýki og slys á hvern þann blett,
Sem í veg fyrir vesalan
Verður stýrt, að buga hann.

Veiku lungun Sveins, með sótt
Sigrar þessi skjálfta-nótt.
Unnið hefir hún allan stanz
Upp, á banameini hans.

---

Aftur þoldi' hann þessi kvein:
Þegar átti að reisa Svein
Upp í vagninn viðbúinn.

Viðnámslausu sárindin
Hertu allar hreyfingar,
Holdið þegar brotið skar.
En hann kljáði í kyrrum þey,
Kænsta ráð: að meiða' hann ei

Þegar upp varð loksins lagt
Lofsorð heyrði 'ann um sig sagt:
»Það var sem þú þektir, hvar
Þetta meiðsli sárast var!
Vissir tök sem meiddu minst
Mann, sem þraut í öllu finst«.

---

Vitund hans það vissi hreint:
Viljinn hafði til þess reynt —

En eins og þann, sem ekki kann,
Ímyndunin studdi hann.
Hann hafði sér í huga gert:
Hann hefði bein sitt kubbað þvert
Sjálfur, og á sama stað,
Sér hvað finnast myndi um það.
Kent til eins við klaksárast
Klaufatak, ef meiðslið vazt.
Önnur handtök seilst að sjá
Sem að minna reyndu á —

Átti hljóðum huga í
Handbrögð fleiri svipuð því.
Undi þeim, við atvik flest,
Aflraununum sínum bezt.

---

## Fyrndur farartálmi.

—

Yfir flóðs og flugstraums á,
— Forðum þar sem vaðið lá —
Þennan, sem hann þekti fyr,
Þröskuldinn við sveitar-dyr:
Frjáls um steypta stálteinsbrú
Sté hann þurrum fótum nú.

Önnur var í minni manns
Mörkuð fyrsta gangan hans,
Þegar flotin flóðs í var
Ferjan hans tók niðri þar
Malargrjótsins eyri á.
— Undir hepni landi að ná —

Þá var att við áar-magn
Akneytum og ferðavagn'.
Hjá þeim áttu alla vörn
Aleigan hans: kona og börn.

Vaðið hafði vísað á
Vestrænn Æru-Tobbi sá,
Sem sú skemtun yndi er,
Auðtrygnin að steypi sér.

Þó hann geymdi, að grípa það
Grunsamt ráð og óþekt vað,
Hafði 'ann ofbrátt áhætt þar
Áður en regnhlaup fjarað var.

Út í djúpt og öfugstreymt
Útskol jökla leitt og teymt
Eyki sína. Á eftir flaut
Of fermt vagnborð. Þegar braut
Strauma-kastið öxl hans á,
Upp um vagnstokk — honum brá.

Fanst þá eins og fis í hyl
Fótur sinn, og botn ei til.

Dýpki um ein-spönn ós til lands,
Alt er frá! varð grunsemd hans,
Svo við kiknun kröftum lá —

Konan hans leit til 'ans þá,
Bifurslaust með bros á vör
Barna milli á sætis-skör.

Síðan trúði' hann altaf, að
Einkum væri brosið það,
Það sem sigursæld valt á,
Sem að fleytti öllu þá.

## Þorp og kaupstaður.

Heiti og staður hélzt enn við
Höfuðbóls frá gamla sið.

Saman þyrptust þarna í hlað
Þeir sem fyrstir komu að,
Sem þar hefðu mælt sér mót
Menning þeirra og trylling ljót.

Þetta sveita-borgar blóm
Bygðist upp úr heiðindóm.
Á þeim sandi illa reist,
Að útlitinu hafði breyzt
Við að gerast vega-stöð,
Vaxa upp í borgaröð,
Er sú stóra stjórnarbót:
Styrkbygð járnbraut komst á fót —

Íhaldsstjórn — sem aldrei svaf
Af sér — sínum dugnað' gaf
Þjóðfé fyrir efnið alt!
— Að eins borgað tvítugfalt —
Og, það sem var amstrið sjálft!
Ekki nema fylkið hálft,
Fyrir að þiggja um alla öld
Einkaleyfi, rétt og völd,
Afskamta sér arð og skil
Alls sem þarf að flytja til.

———

Lötur-brautir lestamanns
Leiddi þangað gatan hans
Áður fyrri, einn í lest
Aðvífandi flökkugest.

Hér var þá við heiðatröð
Hraustra svola bækistöð.
Aldælt var ei öllum þó

Oft við þeirra meðalhóf
Þóknun sinni og þykkju á,
Þegar út af setning brá.

Venjan sú var honum holl:
Hérna, í þessum stráka-soll,
Sjálfkvödd mannúð sízt var flá,
Syndin þeirra opinská.
Lófi og hnefi eins var ör,
Eðlisfar og trú á vör.

Þeirra lundarlag og sið
Lét hann sér ei bregða við.
Á sér lét ei ofboð sjá,
Aftra þeim né forðast þá.
Sem hann hefði heyrt slík óp,
Hnefann séð á fant og glóp.

Af þeim, til að erta hann,
Allur hrottaskapur rann.
Þeim var hálfgert um og ó,
Áreynd hvað í honum bjó.
Var sem bægði beknum flokk
Beygur af hans litla skrokk,
Sat hann kannske að eins á
Orku til að sigra þá?
Sjálfsdáð yfirlætislaus

Læddi geig í þeirra haus —
Svo hlaut virðing sérhvers manns
Sanngirnin og vitið hans.

Fornum stráka-stöðli á
Stórglæpirnir vóru frá —
Betra fólkið fékst nú við
Fegurri og vænni sið.
Góðverk mörg og greiða það
Gerði í afsökunarstað,
O'n-ábreiðslu og afþvotts-mynd
Yfir vitaskuldar-synd.

Væru einstök eða merk
Áfram barin þarfaverk
Fremstu manna fylgi á:
Fyrir-þreifun bak við lá,
Hvort svo yrðu ekki hreyfð
Aðsezt brall og gróða-deyfð.

—

Svona blöstu minning mót
Menningin og siðabót:
Hér var fyrri árum á

Ásjáendum stolið frá,
Ei varð þeirri þjófsku stætt –

Þá var rænt en nú var grætt.

---

## Jón Svoli.

Jóni svola, er manna minst
Mannorð átti, þarna kynst
Nú fyrir löngu hafði hann.

Höfuð-bófann frægsta þann,
Þegar aðrir vildu verst,
Vissi' hann flestum reynast bezt.

Illska Jóns féll ekki í dá,
— Enda þótt hann væri frá –
Hún gekk um svo auka-ný
Öllum glæpasögum í
Sem að skáldin þuldu þar.
Það var Jón sem hetjan var.
Þó þar enginn þættist hann
Þekkja fyrir sama mann.

Jón fékk hnját, sem horfðist á
Hann var fyrir löngu frá.

Að verða að lifa og láta í hans
Leyfi, þoldi ei flokkur manns,
Þar sem krýndan kóng og lýð
Hver sig matti á þeirri tíð.

Var það hans, að setja svo
Siðum manna kosti tvo
Eins og stundum? Kræft á kreik
Kominn til að skakka leik —
Þessi umsvif, illa ræmd,
Urðu honum fall og — sæmd.

- - -

Frjálslund Jóns í fjöldans garð
Fótakefli honum varð.
Á því kvað hann enga mynd,
Aðra kúga að drýgja synd —
Þann að verja, er vildi ei staup,
Viðsjált gein hans byssuhlaup.
»Fái 'ann ekki að eiga sig
Um það«, sagði 'ann »hittu mig!«
Eins fór það, ef ei var til
Einhver með að veðja á spil.

Dygð, sem helzt var hálf og veik,
Hlífði Jón í hverjum leik.

Örðug honum urðu um stund
Atkvæðin á mörgum fund'.
Þó varð málið afgreitt ei
Andstætt við hans já og nei.
Einn í minnihluta hann
Hreppakosning marga vann.

---

## Fundar-samþyktin.

»Jóns mót öllum! Ályktað —
Uppástungan samþykt, að
Brenna inni að aftra nauð
Indíánann Pestar-Rauð,
Svo að þetta sóttarhræ
Sýki og drepi ei þennan bæ. —

Þarna er skipun þjóðviljans!«
Það var úrlausn forsetans,
Þegar sveitin samanstefnd
Sóttvörn ræddi í allra-nefnd.

Bólusýkin, bani manns,
Barst um gamma rauðskinnans.

Formanns valdið þarna þraut —
Þing rauf Jón og lögin braut:

»Eg skal setja vopnavörð,
Vörzlu um þessa kláðahjörð!
Banna umgang undir skot —
Æti flyt þeim heim í kot —
Uppi og niðri, alt um kring
Indum banna tilflutning.
Rek það hyski er hriktir, alt
Hálfbert út í Votasalt.
Vatn svo rammbeizkt allan aur
Af þeim þvær og kláðamaur —
Meðan hef eg bælið brent,
Bráðdautt alt til skollans sent!

Verri útreið sætir sá
Sem að þetta felst ei á«.

---

Bæði þjóð og þingi um geð
Þessu máli Jón svo réð,
Lögum sínum viðtekt vann —
Varðist einn og stýrði hann,

Að sér fengju ei færi á
Fullkeypt varð, en tókst samt þá.

Seinna honum kom í koll
Hversu svona stjórn var holl,
Þó það yrði ei þá til tjóns
Þessu ofurvaldi Jóns.

Jón var frá. — Það fellir mann
Félagsstjórn sem gengdi hann.
Illum soll, sem að hann bjó,
Eina bótin var hann þó —
Verri háttur hæstu réð
Hefði 'ann ekki verið með!

---

Við höfum lofað líknarmann
Sem lagði í sölur minna en hann.

Hvernig munu makleg gjöld
Miða, þessi himnavöld?
Hafi ei þeirra hússtjórn þótt
Hæfa Jóni — er komst í ljótt —
Efri vistarverurnar,
Víti skánar sé hann þar.

## Þrándur í götu.

Þektra manna svipi og sið
Svona tengdi' hann kofann við.
Sóttu úr öllum áttum lands
Að 'onum liðnir dagar hans.

Stundum kankvís kolli skaut
Kýmnissvipur upp í braut —
Alvaran sem auðnin bjó
yfir, hún gat brosað þó!

---

Lestavegi áður á
Illa-kelda þvers um lá,
Ófær nema á einum stað.

Enn þá mundi' hann bragðið það:
Þegar einhver einyrkinn
Amstraði þar upp kofann sinn,
Sáði og yrkti akur þar
Yfir helzt sem slarkfært var —
Þarna, samkvæmt lögum lands,
Lagði snöru á götu manns.

— —

Stíga yfir þröskuld þann
Þurfti forðum sjálfur hann,
Einfari um þjóðleið þar
Þannig er hann teptur var.

Á annars hlut að auka skemd
Undi 'ann ver en laga-hefnd —
Samt var ekið á það sker,
án þess neitt að flýta sér.

———

Kofabúi úr skjóli skreið,
Skauzt þar fram og varði leið
Sagðist stefna sök í dóm,
Selja' hann grimmum lagaklóm
Nema sér hann bætti brot.
Byssan geymdi sextán skot!
Og sér væri illa breytt
Ef hann þyrfti nema eitt.

———

Þarna lá við rammaríg,
Rötun út í lög og víg —

Félagsmanni að fagna þó
Ferðaglasið upp hann dró,

»Heyrðu lagsi! hafðu teyg,
Hressingu úr þessum fleyg,
Meðan hölsum hólm og völl
Hér og setjum lögin öll. —

Glappaskot ei gerum það,
Greftrun vorri að hrapa að.
Kveðum á um aðferð þá
Alla — súptu betur á!«

—

Skálabúinn vel við vazt,
Viljugur að sannfærast.

Sjálfdæmi hann settist í,
Sætt kvað upp í máli því:
»Þér skal vinur, sérhvert sinn
Sama gatan velkomin,
Sértu eins vel útbúinn!
Akur minn sé vegur þinn«.

Þarna, eftir þarflegt dok,
Þetta urðu málalok.

Um þann vininn sæla sinn
Síðar heyrði 'ann tíðindin:
Ferðalang hvern sem hann sá
Sama toll hann lagði á. —

Ári seinna, aftur þá
Er hann sjálfur fór þar hjá,
Honum fanst þá heldur snautt
Hreysið, sem að þá stóð autt.
Gatan óplægð, ekkert strá
Upp úr henni var að sjá.
Tómlegt var um tyrfna brú
Tollgjaldslaust að sleppa nú.
Heiðaauðn við auðar dyr
Eyðilegri var en fyr!

Vel var hann nú verður þess:
Veitinganna á kostnað gests,
Og fyrir snjallráð svona nýtt
Sumarlangt að »drekka frítt«.

---

## Skozki Njáll.

Undra-karl og ekki þjáll
Ókendum var skozki Njáll.
Afdælingur upp' við fjöll
Einrænn, með sín stóðhross öll.

Forðum varð á ferða-sveim
Fyrir slys — að sækja 'ann heim.
Neitun hlaut um nokkra stoð.

Njáll hélt aldrei gestaboð!
Flúið hafði 'ann heimsins soll,
Herskatta og kirkjutoll.
Helzt sér vildi fæla frá
Fréttaburð og komast hjá.
Blaðamanna flýði frægð,
Fussaði við þeirra slægð.

Heimsókn í hans garð, af gest'
Gerð var til að fala hest.
Njáll var ekki í boði beinn
Blá-neitaði að selja neinn.

Væri ei hross til farar falt
Flytja á hrygg sér dótið alt
Sjálfur varð hann sem hann kveið —
Seina-göngu óraleið.

Njáll var þver, tók þýtt í fátt,
Þar til viðtal ósjálfrátt
Barst frá kaupskap efnum að
Óskyldustum mest við það —
Efnum, sem í arð og sæld
Ekki verða töld né mæld.
Spurn um, hvað vor andi á
Ásannað í hverri spá,

Þar sem óháð á sér tign
Ímyndanin raunvits-skygn,
Þekking sem á þessum heim
Þokar, að brúa tíð og geim.
Vorrar jarðar hleypi-hjól
Hefir að kvarða á fjarstu sól.

---

Var ei eins og útsýn hans
Yrði að sjóndeild viðtals-manns
Þegar hann með andans yl
Aftanroðans kvað svo til?
Meðan sveipuð sólskins-mjöll
Sumarnáttmál heiddu fjöll:

»Kveikur lífs og birtu ból,
Blíða, geislaríka sól!
Jörðin okkar eitthvert sinn
Erfir geisla-varmann þinn,
Þú skín henni þangað til,
Þiggur svo af henni yl!

Skuggi eru lok og upphaf alt
Umflutningar vega salt«.

---

## Hestakaupin.

Svo kom stund við úti-eld,
Er í tjaldstað næsta kveld
Áði í dæld við dalaháls,
Dagleið út frá skýli Njáls.

Þangað glumdu hlemmi-högg
Hófa á spretti, tíð en glögg,
Svo að brautin bága-fær
Buldi við — Þau færðust nær
Yfir rökkur-hljóða heið.
Hver fór þar í eftirreið?
Beygt af götu í grend hans var —

Gamli Njáll var kominn þar.

Símuð þvert um sædjúp geims
Sólmánaðar norðurheims,
Slitrótt nætur-lýsa lá
Lafa-síð við úthöf blá
O'n af himins-enda nyrzt.

Erindið kom Njáli fyrst
Þá í hug, er eykt af eykt
Eldinum betur hafði 'ann reykt,
Vöku-hjúa á þingi því
Þur-fnjóskum sem treindist í.

—

Ekki reykti' hann þó í þögn.
Þulið hafði 'ann marga sögn
Katanesi og Firðu frá,
Fyrir handan Atlanz-sjá.

Edinborg og Aberdín
Á honum sýndu mörkin sín,
Frá því efst úr efsta bekk
Út úr þeirra skólum gekk,
Eins og dýrt og ugglaust veð
Allan þeirra vísdóm með.
En á hvarfli í hvektum grun
Hverja þeirra ályktun.

— »Eg er kominn kargan stig
Kaupunum í gær við þig
Til að rifta. Hlýt þér hjá
Halta-Lýsing minn að fá.

Skiftu við mig svo í svip!
Sæztu á þennan stólpagrip!
Reiðhest minn — Hann veðfé vann.
Virði Lýsings fernt er hann«.

---

»Fyrir Lýsing vel eg vann.
Vetrar-borinn síðung þann
Folalds-vetur fyrsta sinn
Fóstraði ég nærgætinn.

Upp úr tyrming ólst hjá mér
Inni — þó hann næði ei sér«.

---

»Það varð úr um okkar rag
— Óvart þó — inn fyrra dag:
Verð hans gekk mér augun í,
Ekki gat eg neitað því,
Fyrir slíkan gallagrip
Grípa ofverð — þá í svip«.

---

»Þeirrar sölu endir er.
Allan gærdag leiddist mér,
Fanst eg vera orðinn einn,
Ætti ei lengur góðvin neinn.

Stóðið einskisvert mér var
Við að sjá ei Lýsing þar.
Hrossin á eg ærin-nóg,
Auður fanst mér haginn þó —

Verð svo, karl, því kaupi að fá
Kipt til baka og Lýsing ná«.

---

Yfir vorsins ljósa-lönd
Landnorðursins sólar-rönd
Sté af sléttu-beðjum blám.

Blómdöggin á strám og trjám
Hélaði í hýja-fönn,
Hjúpaði runn og græna hvönn —

Njáll hvarf inn í leyni lands,
Lýsingur í togi hans.

---

## Fátækur fjarri sínu.

—

Því var honum hörf á því,
Húsið nýja að flytjast í:
Að af götu genginn var
Gamall vinahópur þar,
En í lága láfann hinn
Langminningin bauð þeim inn.

—

Því var honum hörf á því,
Húsið nýja að flytjast í:
Að hann ferða-flutning sinn
Færði í gamla kofann inn.

Þarna hafði 'ann hagnýtt fyrst
Hlut frá hverri útivist,
Þegar um víðra vega skeið
Vikur mældu bæjarleið.
Þegar sléttan einráð öll
Yrkti skóg og blómsturvöll
Meðan selja og sóley smá
Sumarlömpum kveiktu á.

Létt var honum hvar sem lá.
Honum fanst að væri þá

Jörð og heiður himininn
Heimili og bærinn sinn.

Þaðan flutti' hann tröllatrú:
Traustið sem hann hefir nú
Eflt til gamla útskagans,
Átthagans, síns föðurlands!
Sem er ýkt svo ilt og kalt,
Að það svelti lífvænt alt.

Hafði 'ann ei séð útflæmd lönd
Arðvæn gerð af snauðra hönd?
Þekti hann ei sveitasvið
Sem að lengi hýttist við,
Að þau væru óðalsbréf
Eilíft fyrir hrafn og ref,
Sem þó undir augum hans
Urðu að fésjóð gróðamanns?

Þaðan var hún þessi trú:
Þjóðar minnar landeign, þú
Verður sömu högum háð!
Heimavit er finnur ráð.

## Á eftir öldinni.

Við hans ýmsu elliglöp
Æskunni er margt í nöp.
Kynok hans við föggu-færsl
Finst henni sé gamal-ærsl.

Hún, sem raungóð réð hann inn
Reipa-karl í bæinn sinn.

Um það, hvað hann eldast fer,
Aldrei þó hann barmi sér,
Eða þusi um þrámælginn
Það, að hann sé uppgefinn:

Að hann þekki ellibrest
Og af reynslu, sýnir bezt
Þessi önn sem eltir hann,
Að það fari vel um mann!
Ef hann leiðir inn í rann
Einhvern gamla jafnaldrann,

Hvernig öldnum klukkan slær
Kenni á sér og geti nær.

Samt er hann yngri sérhvert vor
Sinni tíð, og létt um spor.
Þrá í augum — Enn sér hann
Yzt í norðri framundan,
Bláar hæðir blika við!
Beinna leiða stefnumið.

Áður vóru einatt þær
Áttavitinn hvar hans bær
Lá á heimleið hugumkær,
Hérna megin þeirra og nær.

---

Enn finst honum óskaráð
Út til þeirra að geta náð.

Sextugum þó sé ei stutt,
Sig hefir það í anda flutt.
Enn með vaskri víkings-hönd
Að vinna af auðnum ríki og lönd.
Komast yfir ill-viðsjál
Óbygðanna leyndarmál.

---

## Til erfingjans.

Nýja hússins njót! eg bið —
Niðjinn hans sem tekur við.
Falli þér sem flest í löð!

Fylgi að eins þessi kvöð:
Hafðu alténd eins og hann
Eitthvert langmið framundan.
Hvert sem hefir heitið för,
Hver sem verða ferðakjör —

Glaður hætta og hátta skalt
Hérna-megin við það alt.

1908

## Að skilnaði.

— Til vinanna minna. Ort í Winnipeg.

—

Þeir lögðu upp með nesti og nýja skó
Sem nentu út af túngarð sínum forðum –
En þegar eg mig hingað heiman bjó
Eg hafði að eins blað með kveðnum orðum.
Og mér fanst sjálfum, að það vera voði
Og vogun, hvað eg hafði smátt í boði.

En þökk sé ykkur, bæja og bygða-menn,
— Þið Bragningar og kvæðalandsins dætur —
Sem fundið getið yndisstundir enn
Við íslenzk ljóð og hafið á þeim mætur,
Og þeim, sem léðu óðnum mínum eyra
Þó ættu sjálfir ráð á betra og meira.

Og þegar aftur eg er horfinn heim
Í hreiðrið mitt hjá fjalla-auðnum víðum,
Og rökrið felur fegurðina á þeim
Og forsælan er ofar miðjum hlíðum:

Eg tendra ljós frá þessum veizlu-vetri,
Og veröld mín er unaðslegri og betri.

1909

---

## Á gömlum slóðum,

— í sveitinni sinni, eftir tæp tuttugu ár. —

Hérna, þar sem sérhvert leiti og laut
Lítur til manns undan fornri hending
Hrunin tóft og grasi-gróin braut
Geyma í moldum fyrri tíða bending:
Er eg sé í svipnum þessa lands
Sálar minnar æskusporin gengin,
Þá er eins og eigingirnin manns
Ætli að grípa sérhvern hörpustrenginn.

Eg á enn þá sólskinshlíðar hér,
Himinvídd og austrið djúpa og breiða!
Lækinn, sem að seiddi fyr að mér
Söngdísir í rjóðrin laufgra meiða —
Bóndi minn, sem ekran þessi er
Eignarjörð og búi þínu að vinning,
Guðvelkomnar þúsundirnar þér!
Þær eru tap hjá einni glaðri minning.

Frændur vorir, vinir, konur, menn,
Við erum sátt við tuttugu ára framann —
Hitt er sælt, að vera uppi enn
Og í kvöld að mega standa saman —
Þó er stærsta yndið sem eg á,
Er eg skoða minnistæðan huga:
Vinir góðir, þekkastir mér þá,
Þið hafið allir lifað það: að duga.

Ég hef' fundið anda um mína önd
Einatt héðan þýðan sumarblæinn.
Meðan röðull rís við morgun-lönd
Rek eg hingað margan glaðan daginn —
Þó, er óvart ljóð mitt líður hjá
Leiðum, sem í reitnum hérna þreyja,
Nærri að freisting finst mér verða þá
Fýstin sú, að lúra hérna og þegja.

1909

---

## Vísur til vinanna minna.

Hér var sungið til siðs
Og til samvizku-friðs
Allri sjálfsdýrð, en falin hver gleða.
Hylmdi hagmælsku-fjör

Yfir hugmynda kör —
Hér var harmdauði lifandi kvæða.

Þó var lánað og leigt
Alt sem laust gekk og kreikt
Kringum ljóðgerð hjá nágrönnum öllum.
Skræktu tónfölsin tóm,
Og í tilgerðarróm',
Hjá þeim tízkunnar hvellandi bjöllum.

Gegnum erindi og óð
Gengu uppskafnings-hljóð,
Eins og apar í hirðmanna klæðum.
Bæði þokur og þý,
Alt sem þrælslund var í,
Fundu þefinn sinn af svona kvæðum.

Alt var útbreiðslu hjóm,
Lífið auglýsing tóm,
Hér stóð »agent« á sérhverju skýi.
Hér komst hégómans hól
Upp í hásætis-stól,
Unz hver hending varð syndandi lygi.

Að eg kljáðist og kvað
Var ei kepnin um það,
Að svo keypti eg mér sveitungans hælni.
Það var hjárænan hans

Þessa hneykslunar-manns,
Sem að hampar fram þrá sinni af rælni.

Mér var sjald-sýnt um það,
En var sama, hvort að
Eg var settur í ljós eða skugga.
Fyrir veðranna veif
Kvað á víð og á dreif,
Eins og vindharpa strengd úti í glugga.

Enn þá brýt eg mitt blað
Svona bundinn við það —
Eg finn bilbug sem leiðir um geðið,
Þegar hinkra mér hjá
Þessi hálf-verk mín smá,
Eða hitt sem eg gat ekki kveðið.

Helzta hugnun sé það,
Ef sú heimska: að eg kvað!
Gæti hlúað að rót undir snjánum,
Orðið lág-liljum stöð —
Sem in litverpu blöð,
Sem að laufvindar hrista o'n af trjánum.

Þegar sat eg með sveit,
Sem var sönglöð og teit
Og sem sæmdi mig skáldmætis hrósi
— Vel eg vinahót finn —:
Mér fanst verðleikinn minn
Ætla að vorkennast undir því ljósi.

Þó var brjóstþel það bezt!
Og eg bar þaðan flest,
Sem að boðið sér von myndi langa —
Það var bróðurlegt, blítt,
Það var blessað og hlýtt,
Eins og barnsklapp um fölnaðan vanga.

Ég finn yl, sem eg á,
Þessum atlotum frá,
Þegar ánægjustundanna fjöldinn
Svífur sér yfir önd —
Eins og sólskin um lönd,
Er hún siglir um logn-ský á kvöldin.

Loks úr leik er eg geng,
Og úr lömuðum streng
Hefi lokningar-óminum skilað,
Eg er ásáttur á:
Eg á orkunni ei lá —
En þið afsakið það sem var bilað!

Þess eg fulltrúa fer:
Að sá formæli ber
Sem að framgang úr mönnunum telur.
Skila skal þeim úr stað!
Þó þeir skirrist við það,
Því hún Skuld undir rendurnar gelur.

Drynji bumba við brag
— Þó sé brúðgöngu lag —
Er það bending um áfram að halda.
Þessi skref og það skrið
Sem að skeytast þar við,
Það er skóhljóðið komandi alda.

1909

---

## Íslenzk eftirlaun.

—

Sjálfur Paurinn einn ef yrði Íslands Herra,
Ár í völdum ef 'ann héngi:
Eilíf laun hann tæki — og fengi.

1909

---

## Í óþakklæti.

—

Hann mætti á götu — eg með honum var —
Einu misendis gustuka-barni.
Hann rétti því gjöf sína, alt sem hann átti!
Því oft var hann sjálfur á hjarni.

Hann þagði — en út úr hans svip varð þó séð,
Að sjálfkrafa blessun hans fylgdi þar með.

En reikningsglögg hagsýnin, hreiðruð í mér,
Gaf hljóð af sér — egnd svo til raunar:
»Þú hreppir, sem viðkvæði valmensku þinnar,
Það verðkaup sem skrílmenskan launar,
Að hrifsa í belg sinn það bágmist var þér
Og blóta þér fyrir hve lítið það er«.

Hann hreyfði ei mótbárum, sagði um sig,
Og svaraði í spurningum hálfum:
»En hvers virði er mér sá greiði sem geri
Mér getandi meinalaust sjálfum?
Og ómetin gjöf mín er öll þó frá mér,
En ofþökkuð rýrnar og hálf í það fer«.

## Nýi forsetinn.

—

Fær hann er til aðgerðanna
Eins og vinnukonur manna,
Sem bæta fyrst með flík og bandi
Fatið, sé það óbætandi.

---

## Bæjargöngin.

— »Symbólískt« kvæði. —

—

Eg var einn á gangi um göngin,
Göngin bæjar dimm og löng.
Yfir mér og undir söng þar
Einhver dauðans Líkaböng.
Bar mig inn að eldhúsdyrum.
Af mér líf og krafta dró —
Hrapaði Víti í einu ópi — —
Eldabuskan pottinn skóf — — —
Svitaholur allar á mér
Urðu að hlust, sem grenjið smaug.

Ég varð allur alsjáandi —
Augasteinn i hverri taug — —
Ég hef' aldrei — aldrei! — aldrei!
Orðið fyrir slíkum draug — —
Síðan, þó eg sofi í næði,
Sífelt hræðir þetta umr.
Það er eins og í mér suði
Altaf þetta humrum-kumr.

1909

## Út úr heiminum.

Eg vellíðan skínandi í skapinu hef',
Eg skrafa ei um heimsku og fæ eigi bréf,
Og þvaður og launklípni lafa ekki á mér
Né leita mig uppi í gönunum hér.

Eg frétti ei sífelt að rétt gangi rangt,
— Úr rellunni er eg nú kominn svo langt —
Né það standi hindrað og heft sem eg ann.
Hvað hreinlega að týnast er gott fyrir mann!

1909

## 99.

—

Og hví mun betra, að höggva í skóg sinn rjóður
Ef höllin bygð á annars land er sett?
Nei, sá er þræll, sem þykist af því góður,
Að þjarka á aðra skyldu sinni og rétt'!
— En það er eins og urgi í hverju tetri,
Að einvöld sjálfstjórn verði skaðanæm.
En hvað er útlend eigingirni betri
En innlend sinka? Þó að hún sé slæm.

Vort Frón var sjálfrátt forðum, þegar stríðast
Að frænda löndum spentust præla-bönd —
Og sé það aftur fyrst í flokk — ei síðast!
Með frjálsa þjóð um gjörvöll Norðurlönd.
Og hvernig sem þeir flækja, þvæla, fela
Það fyrir Dönum, Íslendingum, sér,
Þá getur engin væfla stjórnar-véla
Þær vonir hrætt né fleðað út úr mér.

[illegible]

## Grímur frá Hrafnistu.

—

I.

Hann ólst upp í hamra-eyju
Harðkreptri af rasta-bandi,
Sem úr hafsins bóndabeygju
Bryddi á tá af sokknu landi —
Sem þar niður-numinn lægi
Nökkvi Berg-Dumbs ófleytandi,
En úr kafi á keipinn sæi.

Skerja-heft og hrönnum flotin
Hrafnista lá út af töngum.
Það vóru Ýmis-beina brotin
Brimnöguð á Dofra öngum,
Hrímþursans sem »hérað« Svía
Hengir um öxl mót' Noreg löngum,
Hálfur í kafi hafs og skýja.

Þar varð ungum ekki að hæfi,
Og sízt Grími Loðinkinna,
Það: að taka alla æfi
Andófs-barning feðra sinna,
Hrekjast yfir haf á árum,
Hnika ei mót' en dráps-raun vinna,
Leiksoppur hjá byl og bárum.

Gamla Ægis goða-veldi
Grími fanst sig smá og spana,
Þegar gein og froðufeldi
Fallsjór yfir manna bana:
Líkköstunum lífs-andvana
Lögðum upp þar fari hvelfdi
Undir bólgna brimgarðana.

Þegar innstreym áföll riðu
Upp með Jaðri norðanverðum,
— Flæddu grunn sem gengju á skriðu —
Grími svall í skapi og herðum
Brýndur vilji og vit, að storka
Veðri og sjó, en ráða ferðum,
Svo þau mættu ei móti orka.

— Þannig sífelt lýðsins leysa
Lífshöft ill og þrautir grynna
Þeir, sem voga röskt að reisa
Rönd við guðum feðra sinna.
Annars væru ljóð og listir
Lögst í kör í auðmýkt hinna,
Allra vona mættir mistir.

Hann sá oft í rokum reiðra
Rána, sjófugl móti éli
Blaka inn til hamra-hreiðra
Höllum væng og beygðu stéli,

Akast láta vind-segls veifu
Vængja sinna á fleygi-hveli
Fyrir veðri hæðar-hreyfu.

Lagði hönd að hyggju-sniðum:
Hvort svo mætti, ef fyndist mátinn,
Skapa sér úr voð og viðum
Væng á ára-þungan bátinn,
Að sér láta siglur soga
Særoks-veður bylja-státin,
Andblásandi önugt toga.

Lokst tókst Grími að lægja boða,
Lang-róðrum að marka bása,
Er með leikni lausra voða
Lét sér vinda öfugt blása —
Hjátrú sagði, að hvert sem færi' hann
Hefði 'ann byr af kyngi Ása,
Göldróttur og guðlaus væri' hann.

Þegar Grímur gildum ölnum
Greipti stjórn-ár drif þó skæfu,
Sízt var hætt að hjálmun-völnum
Holskeflurnar undan græfu.
Stæði á lofti kinn á kjölnum
Krækti 'ann tá í Híminglæfu:
Stakk við sveigðum stýris-spölnum.

Sat hann undir siglu-taumum
Sex á borði er undan gefa,
Galdraði seglin stormi og straumum
Steyttan undir vindsins hnefa.
Sneiddi byl og hjó til hafnar
Hring-beitingum siglu-skrefa,
Meðan hinum sædjúp safnar.

— Grímur hafði ei heima-listir
Hrafnistu með sér til grafar.
Þær eru erfð, sem ættar-kvistir
Yngri fá til vöggu-gjafar.
Þær hafa haldist hvoru-veifi
Hjá oss Norðmenn — Frá þeim stafar
Heiður Nansen, hepni Leifi.

II.

Alda-höf af grónum gröfum
Gríms og Fultons lágu milli:
Dysjar allri sneyddar snilli,
Sniðnir bautar rúnastöfum,
Minnisvarðar glæstir gylli.

Grímur í fjöru í norðurhöfum
Liggur í urð — við fjarða-fylli —
Fægðri brims og ísa-sköfum.

Leiði Fultons heimsins hylli
Hreykir upp með steina-gjöfum.

*　　　*　　　*

Báðir yngri öldum vægðu,
Andviðrin og sjóinn lægðu —
Mér finst líf og liðinn tími
Listhagari í bát hjá Grími!

1909

---

## Eina pundið.

—

Ég er aðeins eins punds maður
Orðinn nú.
Við mig þegar innir eftir
Ávexti af hinum þú:
Hefi eg vísu, ef hart er krafinn —
Hin eru grafin!

1909

## Erfðin.

Móðir vor átti, ör í lund,
Eign fyrir börn sín valla —
En hún gaf þér í heimanmund
Hörpuna sína alla.

1909

## Skáldsögur.

Þeir meiga hossa — Hug eg sný
Helzt að okkar bögum.
Leirurnar sem liggur í
Laun-drýjast í sögum.

1909

## Krossgötur.

---

Þér velja skaltu veginn
Og vöðin lygn og grunn,
Og fylgd sem þér er fegin
Í för um héruð kunn.
Því fótur þinn er þungur,
Þú þolir ei vos né hungur,
Né skömm né skæðar tungur —
Þér sléttuð braut er bezt.
En ég fer afveg eiginn
Um auðn og þyrnirunn,
Með engan eftirdreginn,
Né annars skip á hlunn.
Því ég er enn þá ungur,
Kemst yfir mörk og klungur
Og sker og bylgju-bungur —
Mér vel rudd braut er verst.

1909

## Kirkjuþings-kviða.

Senn mun fagra fylkingin
Ferðasálminn kyrja,
Vantrú þrjózk og þröngsýnin
Þingreiðirnar byrja.

Mér finst þessi þingförin
Þroskalegri á seiði,
Heldur en blindur biskupinn
Blindan páfa leiði.

1909

---

## Skálkaskjólið.

Ég veit að sönnu, að hann átti
Sér annmarkana göfugs manns.
Hann var þó svanur sinnar tíðar,
Og sveitarbót og gull síns lands —
En ósæmd sína af sér þurkar
Hver aurgoðinn með minning hans.

[illegible]

## Haraldur Vídal.

— Minning úr ferð um Nýja Ísland. —

I.

Vatnið lá hálf-frosið, hemað við strönd.
Haust bjó í skóginum. Tún stóðu ber.
Él fór að utan sem andvarp um lönd.
Úrkoman storknaði í marmara-gler.
Albyrgða himinsins hangandi þoka
Héraðið tjaldaði frostveðra-grátt,
Læsti úti upprof og lokaði átt.
Hörzl breytti þjóðleið í hraunstorku-oka.
Ekran var hellugólf hálmbleikju-gljátt.

Vatnið lá dautt undir ótryggum ís,
Eggslétt og blákalt og hljótt eins og þoka
Þegar um sumarnótt fjallaloft frýs —
Feigð-döpru auga sem jörð væri að loka!
Lygndi við skógarins bliknuðu brá
Brestandi sjón út í vetrarins dá.

II.

Og eins fanst mér sjálfum mér sortna um önd
— Þó sveit væri gestmild og fylgdin in bezta —
Sem íslenzkar raunir á útlegðar-strönd

Í ímyndun næðu sig daprar að festa.
Eg vissi það hérna — eins kjarkstórt sem kvíðið —
Að kynfólk mitt háði sitt beiskasta stríðið.
Í mannsaldur féllu hér æska og elli
Við óleik og minnkun, að halda þeim velli.

Og mér fanst sem kólgan frá högum og höfum
Að hjarta mér legði upp af íslenzkum gröfum.
Og vetrarlofts snjódrunginn vofa svo þungur
Sem viðraði um umliðnar pestir og hungur.

III.

Einn útfarar-dagurinn íslenzkra vona
Rann upp yfir sveitina, og bjó hana svona!
Því örenda drenginn — úr djúpinu hafinn —
Þann daginn eg vissi upp á strönd sinni grafinn.

En þó var ei als-vörnun á hana dæmd,
Því uppeldis-sveitin fékk dygð 'ans og hróður.
Hann kvaddi' hana ungur, en kvaddi með sæmd.
Hann klauf gegnum skammlífi að vera' henni góður.
Hún mátti hann ungan en andaðan sýna
Sem óskabarn tregað, en virðingu sína,
Og litið hún gat gegnum harmana hreina
Svo hugdjörf á rúmið hans tómlega og eina.

Og þar hefi eg litið, frá leiðinu því,
Til lífs-starfa föðurinn hraustlegast ganga.

Með þögulan söknuðinn augunum í,
En alúð við gest sinn í missinum stranga.
— Já það gerir minst þó í móðu og reit
Að máðar og sandorpnar grafirnar standi,
Því feður þeir ráða og synir í sveit
Þá sigur er fenginn og vor er í landi.

1909

## Barið í brest.

Lygi er það — Engan höfum rekið
Út úr vorum kirkju-félagsskap!
Stefnu okkar skorti það á þrekið.
— Það var líka í samvizkurnar gap —
Höfum bara af borðinu hans tekið
Bitann okkar. Við áttum það snap!
Höfum ekki fært neinn klerk úr kjólnum,
Hvestum bara lúterskuna í stólnum!

Var ei sjálfsagt, sameiningar oddum
Sann-trúnaðinn vorn að næla inn?
Smeygðum kranzi af kristnum þyrni-broddum
— Kærleiks merki — í prestastólinn þinn.

Eirir þú á okkar prjóna-koddum
Enginn blaktar til þín, vinur minn!
Höfum bara, eins bróðurlega og getum!
Búið um þig, hérna á okkar setum.

1909

---

## „Hvað er sannleikur?“

Hann verður hvorki seldur eða sýndur
Né sölsar hann upp spakvit einstaklinga,
Hann stöðva ei lög né staðfestingar þinga,
Hann verður hvorki handtekinn né krýndur.

Því sólnakerfum hefir flætt og fjarað
Um fortíð alls, á þrotalausu geysi.
Og upphaf þess úr altilveruleysi
Er heimsku-spurn af hleypidómum svarað.

Þó svarar hann til okkar endimarka:
Hann er vort skyn og næmi vorra tauga,
Og getspeki og glöggskygni vors auga,
Þær hreyfingar sem fötlum frá oss sparka.

Því tíð og rúm er áferð hluta og heima,
Sem hrífast á og valda tilbreytingum

Alt varð til í, alt veldur afleiðingum,
Sú umsköpun er gangskör allra geima.

Er sjálfsvitund úr sínum högum ræður,
Er sannleikurinn upprennandi að hreyfast
Í mannviti, sem þar er um að þreifast,
Að þekkja sig, sinn veg og kringumstæður.

Þó glóra víða í myrkrum kviksetts muna
Dauf maurildi á leifum fyrri alda.
Menn skældri baksýn fyrir framtíð halda,
Við mis-spá forna og undandregna una.

Og nokkrir ætla, úr öllu samanbornu
Þeir endir sannleiks hafi niður-ritað,
Og mælt hann upp á agnar-hár og hnitað,
Og hafi leyst úr framkomandi og orðnu.

En tilveran hans endatakmörk eru,
Af eilífðum í molum hann er sagður,
Hver spölur hans um lífs-skilyrði er lagður.
Því sannleikur er viðhald okkar veru.

Þér skilst sem engin elja veg hans fyndi,
Þó er hann beint við tá-mörk þinna fóta!
Því hann er hvað sem horfir mest til bóta
Og gerir hverja göfga þrá að yndi.

Því gildir líka lífið fyrir okkur
Og les sig fram, þó vegurinn sé hallur.
Því sannleikur vor, óyggjandi og allur,
Er ástand vort — en ekki véfrétt nokkur.

Þau reynslu-spor sem menning manna hækka
Og miða fram, er sannleikurinn eini,
Því hann er líf, en stendur ekki á steini
Og sjálfur guð má sig fyrir honum lækka.

1909

# DIKONISSA.

---

Eg sá hana í hafnir teyma
Auðnu og manndóms eftirbáta.

Eg sá hana í hófi snjöllu
Hallar-drotning ríkis-sala —

Síðan þetta varð mér vissa,
Hvað þú átt til brunns að bera:
Reynslu-svíða í sal þér inni,
Heilagt krossmark hygg eg vera
Hringa-glys á hendi þinni.

---

## Díkónissa.

I.

Hún var snauðum von og vissa
Viðhjálpar, hún Díkónissa.

Eg sá hana á faralds-fæti
Flökta milli týndra sauða:
Fólksins dugs og dáða-snauða.

Þar sem auðsins yfirlæti
Örbirgð hafði rutt um sæti
Yztu myrkra út á stræti,
Undan glaum og borgar-kæti.

Og úr sínum kór og knæpum
Kaupmanns-syndir volaðs-glæpum.

Eg sá hana lítilláta
Lifa í þröng og eymd, en gleyma
Alls-nægtunum öllum heima.
Ekki um sína fást né dreyma
Yndis-fegurð yfir-máta,
Æsku-nautn né lífið káta,
Sem hún þurfti ei í að eima.

---

Eg sá hana í hafnir teyma
Auðnu og manndóms eftirbáta.

Eg sá hana í borgar-bölsins
Botnlaust afgrunn niður stíga
Þangað dýpst sem siðspell síga
Undan þunga vonar-völsins.

Til þess fallinn hug að hreysta,
Hlúa í ösku að vonar-neista,
Og til góðs — úr greipum lasta —
Getulausra dygða að freista.

Ganga í veð um viljann leysta,
Vaka, hjúkra, biðja, fasta.

---

Eg sá hana hugga, þjóna,
Hæverska og snautt til fara —

Morgunstjörnu í meyjaskara,
Lánsbarn marga millióna!

---

II.

Eg sá hana í hófi snjöllu,
Hallar-drotning ríkis-sala

Máttur gullsins glápti úr öllu,
Grunni og mótun þaks og svala:
Eins og stirndi á steins og fjala
Steypu-lagi og utan-skrauti
Myntuð prýðin punds og dala.

Þannig var það úti — Inni,
Yfir hverju borði og minni
Virtust silfur-tungur tala — —

Heim í föður-húsa bötun
Hún var snúin, beint frá glötun.

---

Leið hún um í ljósa-drifi,
Líkt og alstirnd vornótt svifi
Glað-björt út að óttu skeiði,
Yfir mjalla-hreinni heiði.
— Höfðinglegri en tildurs-fljóðin —

Eins og sólar-blær í bifi
Blikaði eðalsteina glóðin.

— Þó var eins og ýfði hvergi
Oflæti það viður-bjóðinn —

Um hana féll sem iða af bergi,
Úði af silki og rasta-slóðinn.

Ég sá elna ættar-mæti
Yfir hennar gylta sóma:
Föðurástar yfirlæti
Íbygnara af hennar blóma,
Þessari aldýrð auðfjár-ljóma!

Er hann leit inn dýra skrúða!
Fingur hennar hringum-prúða,
Hló 'ann við og mælti af kæti:

»Hvar má, dóttir, búnings-bæti
Buga að þér? sem komist gæti
Fyrir á skraut þitt, fagra brúða!«

Hún leit á hann angur-hýrri:
»Alt af geta fundið sæti
Skartgripirnir nokkru nýrri,
Ný-tízkaðri og stórum dýrri« — —.

Þar var auðsén óska-gangan
Eftir hennar vild og langan.

---

III.

Eg var fram að glugga genginn
Geispa-sjúkur, út úr hringi
Gasprаranna í orða-glingri.

— Hér, á þessu hispurs-þingi,
Hafði mál til umsjár engin —

Næmar greip til geðs, í strenginn:
Blik-rökkvað, sem botn á ósi,
Borgarstræti í gervi-ljósi.

Hugði ei um, en horfði á bara
Mannasvipi æða í öldum,
Eða í humátt þungan trampa.

Undan dökkum fata-földum
Fram í veginn blika og stara
Andlit, sem þau stæðu í steini
Storknuð — líkust fílabeini.

Sífelt að og úthjá fara
Undir neistum glóðar-lampa

Rafljósa, sem gljá og glampa
Glærum jökul-hvítu köldum.

---

Hamaður í hlé frá straumnum,
Hrökk eg upp úr leiðslu-draumnum.

Þar stóð einhver Hulda hjá mér,
Horfin líka út úr glaumnum.

Fasið hennar fann eg á mér.
Ég leit upp, og yrti á hana
Ertnislega, að gömlum vana.

Sagðist engan usla gera,
Að eins hvílast frá að vera
— Til ef ynnist tími hálfur —:
Týndrar dóttur alikálfur!

Hina — fyrst þá fýsti ei héðan —
Faðir hennar gæti á meðan
Leikið við og veizlu-búið — —.

Við að hefði 'ún aftur snúið
Væri skylt að gleðja glaða.

Gæfu hennar svo að raða,
Að hún gæti ei framar flúið!

---

Flögraði kát-bros rauna-lúið
Yfir munninn milda á henni —
Móða í augum, skuggi á enni.

IV.

Huldist mér af hennar orðum
Hvað þeir sögðu yfir borðum —
Þér er engu um vandara
Að eg held — En ráddu bara!
Hérna er efnið hennar svara.

»Það skil eg, þess grun mér gerði,
Að góðgerðirnar mínar verði
Að kými-leik hjá líkum þínum.

Hjá lagssystkinum öllum mínum
Sem nánast vissu, en núna sjá mig
Í hégóms-tildri voða-verða,
Sem viljuglega hleð eg á mig,

Og æfi að sóa fúsa fá mig
Jafn fyrirlitleg heimska skyldi,
Sem þetta fitl við glaum og gildi!
Sem héðan-af er iðn sem á mig —

En það varð, af að þrá og reyna.
Mitt þrota-ráð og getan eina«.

---

»Varstu í síðsta gleðigildi
Gustukanna og kærleiks okkar?

Rausnarmenn og ríkisbokkar,
Rétt-trúaðir aðalsflokkar
— Þessir stólpar þjóðfélagsins —:
Þinglýstu svo vitnast skyldi,
Gæzku sinni og gjafa-mildi —.

Þvílík list er lágt ígildi
Loddarans sem »spilin stokkar«.

»Manstu talsmann dýrðar-dagsins
Dást að okkar líknar-störfum?
Úrlausninni á aumra þörfum,
Uppfyllingu bræðralagsins!

Fanstu hvernig alt var orðað?
Yfirdrepið, við sig skorðað!

Gamla eigingjarna hrósið,
Gamla kærleiks villu-ljósið.
Mærðin forna um vott í verki,

Viljann undir kristnu merki
Gagnstætt kald-lund hinna hjúa.
Heiðingjanna er oss ei trúa«.

»Þó eru sama bundin bandi
Borgar-gróði og nurl á landi.
Undir sama lagi og loki
Leynist ríkis-dygðahroki.

Örfá þúsund úti í sveitum
Eru bænda-státið mesta,
Efndirnar á öllum heitum!

Ívitnanir ferða-gesta
Dvelja helzt við húsakynni,
Hæðar-mörkin fárra álna.
Saman-píndra maura minni,
Múraðar grafir dauðra sálna!«

»Veiztu að þessi aldarandi,
— Æ um kærleiks-verk að manga —
Er og verður alls ins ranga
Íaukning og viðhaldandi?

Launsnaran í Loka-bandi
Lítilmagnar í sem ganga:

Líf sitt þakka, og lotnir hanga
Á þessari ásjá — umvaldandi!«

»Svona eru helguð bæði borðin
Betls og nautna, öllu megin.

Mammon vor er alhreinn orðinn,
Kristindóms og kirkju-þveginn.

Hér er sérhver gjöf til gjalda
Gullinn auð að tvítugfalda,
Uppi skertum heiðri halda.

Hraðara í sjóðinn draga
Ávaxtendur almenns baga
Í ölmusum ef líf er hamið.

Þetta er í guðs og gróða-laga
Skjóli, umbætt erfðasaga
Arðvænni en forðum daga,
Þegar víg til fjár var framið!

Svo hefir ráðsnild reiknings-alda
Ribbaldann til hagnaðs tamið«.

— —

»Það er öllum auðvalds-klöfum
Efling stór að rausnar-gjöfum —
Haldist nauðin eykst við auðinn.

Ekki er kyn þó forsjáll viti
Að hag-fjarstæða er hugursdauðinn.

Hitt er, að sérhver gjafa-biti
Hækkar sjálfgert sölu-brauðin,
Meðan bljúgar betli-hendur
Blessa sína tjón-gefendur«.

---

»Sjáðu pabba! þræða þanninn
Þessa auðs og kærleiks-götu:
Góðmennið og gróðamanninn
Guðhrætt flá og taka á mötu!

Elsku pabba! illra menja
Erfingjann og trúar-synda.

Afbrot hans er innrætt venja,
Uppeldi og kenslu-blinda.

Heiðurs pabba! er vegi velur
Vitund sinni beztu eftir.
Grun hjá honum enginn elur
Um að þeir ei séu réttir!

Kynslóðanna staða og stéttir
Standa á þessu, og dómar settir — —

Álög, álög órjúfandi
Eru á því, sem varna að skilja
Beztu greind og góðum vilja,
Venju-gróinn aldar-andi«.

Eg er fyrir löngu lúin.
Liðin bæði von og trúin —

Ég get ekki orðið bætt við
Umvillur — né lygum sterkum
Verið önnur hönd. Er hætt við
Huklið þeirra í kærleiks-verkum!«

---

»Vegurinn eini getu-góði
Gengur mér, er sá, að vera
Eyðsluskepnan gjálífs-gera,
Glopran sú sem fleygir pyngjum,
Mölur og ryð í rokna-sjóði,
Sóunin í dala-dyngjum —

Lát þér orðnar efndir lynda,
Aflausn veit mér bóta-synda!«

---

Heyr þú dóm minn Díkónissa!
— Dóm minn, nei, eg eftir hlera.
Hvað mér segi sjálfs mín vera :

Síðan þetta varð mér vissa,
Hvað þú átt til brunns að bera:
Reynslu-sviða í sál þér inni,

Heilagt krossmark hygg eg vera
Hringa-glys á hendi þinni!

---

Upp úr þagnar-löngu ljóði
Logar títt í huga mínum,
Veslings, veslings viljinn góði,
Vonleysið í augum þínum.

1909

## Að loknu erindi.

Við kveðum til að kveðja ykkur nú!
Sem komum hér að syngja lag og ríma,
Sem erum draum-menn okkar dags og tíma
Og vitjum þeirra í svefni með vonir okkar, til-
finning og trú.
En húmið er að hníga,
Og sólin er að síga,
Og aftanljósið leggur austur langa geisla-brú.
Þar líður löngun fjærst
Og lengra en augað sér
Sem ljóð frá leiti hæst,
Sem lagið ber
Um hljóðbert loft og kvöldsins kyrðar-geima —
Það dagar úti á Íslandi er dimma tekur hér!
En vertu sæl, vertu sæll, verið sæl unz við sjá-
umst aftur næst!
Þá hittumst við á Þingvelli heima.

1909

## Gestur.

- Sonur höfundarins. -

Það lögmál sem að lífi verður grand
Með langri von og ótta mig ei tafði,
En sendi úr hæðum himna eldibrand
Í hjartastað á því sem kært eg hafði.
Og fró er þessi þrautaleysu vissa
Um þennan skilnað — fyrst eg varð að missa.

Já, nú er vægð að vita á því grein,
Að var ei það er laust þig svona, kæri,
Neitt skynbært vald, er vilji neinu mein,
Né venji á gott, með slys sem tækifæri!
Því grimdarverkin — hvað helzt sem þeir kenna!
Í hverju hjarta sviðaheitast brenna.

Og hægra er við skeð að sætta sig
Ef sitja ei hræðsla og refsing öllum megin.
Ið góða átti enga sök við þig,
Og af því hefðir þú ei verið sleginn.

Og aldrei gat það hitt svo hörkulega
Öll hjörtun þau, er sakna þín og trega.

Og vonzkan aldrei á því góða hrín
Um eilífð! hvað sem líf og dauði boða,
Og hún á ekkert afl sem nær til þín
Og eldingin sem hitti þig til voða
Var saklaus — og hún sat um líf þitt eigi —
Sem sjálfur þú að ganga á hennar vegi.

Svo vef eg þig í angurværðir óðs
Inn andaðan, í línur táraglaðar —
Í englaröðum glaðværðar og góðs
Minn gestur verður — hvergi annarstaðar!
Ég kveð þig ugglaus, um það lokast sárin.
Á eftir blessun, þakkirnar og tárin.

Eg kveð þig ugglaus. En eg til þess finn
Um alla þá sem harm um lát þitt bera,
Að geta ei borið meira en hlutann minn
Af mæðu þeirra: án þín nú að vera —
Til æfiloka á eg til þess merki
Þú ert hjá mér, í ljóði mínu og verki.

Af kærleik þínum engu verður eytt,
Hann er og varir mér í tímans sjóði.
Þó von um framtíð, um þig bygð, sé breytt,
Eg bý að auð' frá samvist okkar, góði!

Og þegar berst eg út af ljóðsins löndum
Mun lífið verja 'ann sínum geymslu höndum.

Ó, hjartans barn, þín hjálparfúsa mund
Varð hlúun þess á ellidögum mínum,
Að mín, sem þreytt var, fengi frjálsa stund,
Að forða týnslu mörgum gleymdum línum.
Þá beggja eign eg grátþakklátur gæfi,
Ef gæti og þyrði, að treina þína æfi.

Og enn skal kært að kveða, og heilsa þér!
Og kvöldsól mín skal setjast enn í heiði,
Er hinzt til viðar veröld gengur mér
Í vestri, undir þínu gróna leiði –
Svo helgast leið að líkkistunni minni,
Og ljóðið hinzta, af minningunni þinni.

16. júlí, 1909

## Einkennis-nöfn og upphöf.

KOSTNAÐARMENN þessa kvæðasafns vilja láta þess getið, að það er þeirra skuld, en ekki höfundarins, að þetta þriðja bindi er lítið eitt minna en tvö hin fyrri og með nokkuð öðru sniði og biðja þeir um leið umburðarlyndis á drætti þeim, sem orðinn er á prentun bindisins. Öllu þessu valda atvik, sem ekki varð séð við og stafa sérstaklega af því, hve óhæg var samvinnan milli þess kostnaðarmannsins annars vegar, sem annaðist um prentun fyrri bindanna, og félaga hans vestra hins vegar, sakir þeirrar víkur, sem þar var á milli vina.

Það var tilætlun höfundarins, að þessum kvæðum, sem nú eru orðin VIII. flokkur, skyldi skifta eftir efninu upp á milli hinna VII, og hefðu þau þá orðið þar síðust, hver í sínum flokki. Í sjálfu sér ætti það ekki að raska svo mjög útsýn yfir hópinn, þó þessi allra yngstu systkin standi nú sér, einkanlega þar sem skipað var í hvern flokk vendilega eftir áratölum, og þess þó að auki gætt hér að nokkru, að raða í árgangana með hliðsjón á flokkaröð hinna bindanna. Samt er höfundurinn beðinn afsökunar á því sem áfátt er orðið, og atvikin hafa ráðið, en ekki hitt, að kostnaðarmennina hefði ekki langað til, að útgerð bókarinnar öll hefði getað orðið svo samboðin verki hans, sem efni og aðstaða leyfðu framast.

Menn eru beðnir að leiðrétta prentvillur nokkrar og pennaglöp, sem sumpart hefur skotist yfir og sumpart var ekki kostur á að bera sig saman við höfundinn um fyrri en eftir á. I. b. bls. $94^{22}$ hrepti, fyrir *herpti*; $130^{1}$ mannon, fyrir *mammon*; $181^{9}$ kynflokk, fyrir *kynflokkur*.

231[16] Vínlandi, fyrir *Vílandi;* 283[12] öldungar, fyrir ,*öldungur*,. II. b. bls. 6[16] þig héraðslýð, fyrir þig *og* héraðslýð; 20[6] þrúðlaufgi, fyrir *þrúðlaufgi;* 34[14] Bungufattur, fyrir *Bunguflattur;* 35[3] marar-þak, fyrir *marar-bak;* 132[19] úr, fyrir *út;* 163[7] að dyrum, fyrir að *í* dyrum; 200[14] kemst, fyrir *komst;* 249[5] menn, fyrir *mann;* 267[3] út, fyrir *úr;* 300[24] sig, fyrir *sigur.*

---

